# Almanak

fyrir árið

# 1916

sem er hlaupár og fyrsta ár eftir sumarauka.
Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba

Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira.

TUTTUGASTA OG ANNAÐ ÁR.

WINNIPEG
Útgefandi og Prentari Ólafur S. Thorgeirsson.
1915

Á þessu ári teljast liðin vera:
frá Krists fæðingu.. .....1916 ár

---

Árið 1916 sunnudagsbókstafur B.A.
Gyllintal: 17.

---

Milli jóla og langaföstu eru 8 vikur.

---

## Árstíðirnar.

Í Vestur-Canada er talið að

| | |
|---|---|
| Vorið byrji | 21. marz |
| Sumarið | 21. júni |
| Haustið | 23. september |
| Veturinn | 22. desember |

---

## Myrkvar.

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Tunglmyrkvi | 19. jan. |
| 2. | Sólmyrkvi | 3. febr. |
| 3. | Tunglumyrkvi | 14. júlí |
| 4. | Sólmyrkvi | 29. júlí |
| 5. | Só.myrkvi | 24. des. |

---

## Tunglið.

Fylgisrjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jorðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður; er það tímabil alment talið 28 dagar,en er í raun réttri 27 dagar og 8 klukkustundir, eða rétt um það bil.

---

## Um tímatalið.

Forn-Egyptar skiftu degi og nóttu í 12 kl.-stundir hvoru, — og hafa Gyðingar og Grikkir ef vill lært þá venju af Babýlóníu-mönnum. Það er sagt, að deginum hafi fyrst verið skift í klukkustundir árið 293 f. Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-musterinu í Róm. Þangað til vatnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.), voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm til að segja borgarbúum, hvað tímanum liði. Á Englandi voru vaxkertaljós höfð fyrst frameftir, til að segja mönnum, hvað tímanum liði. Var áætlað, að á hverri klukkustund eyddust 3 þumlungar af kvertinu. Hin fyrsta stundaklukka (tímamælir— sigurverk) í líkingu við þær, sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyr en árið 1250. Fornmenn á Norðutlöndum töldu flestir, að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri og Rómverjar, eins og vér, á miðnætti.

## Páskatímabilið.

Kirkjuþingið í Nicæa, er haldið var árið 325 eftir Krists fæðing, ókvað og leiddi í lög kirkjunnar, að páskahátíðin skyldi ætið haldin vera hinn fyrsta sunnudag eftir fyrsta tungl, er springi út næst eftir 20. marzmán. Samkvæmt ákvæði þess getur páskahátíðin átt sér stað á 35 daga tímabili, nefnilega á tímabilinu frá 22. marz til 25. apríl, að þeim dögum báðum meðtöldum. Þetta tímabil er nefnt páskatímabilið. Af þessu leiðir, að ef tungl væri fult 21. marz, og 22. marz bæri upp á sunnudag, þá yrði sá dagur (22.) páskadagur. Fyr á ári geta páskar aldrei orðið. Þetta átti sér stað árið 1818. En sé tungl fult 18. apríl, og 18. apríl bæri upp á sunnudag, yrði næsti sunnudagur páskadagur, nefnil. 25. apríl. Það kom fyrir árið 1886.

---

## Páskadagur.

| | |
|---|---|
| 1916 ............ | 23. Apríl |
| 1917 ............ | 8. Apríl |
| 1918 ............ | 31. Marz |
| 1919 ............ | 20. Apríl |
| 1920 ............ | 4. Apríl |

---

## Sóltími.

Sólarhringur er sú tímalengd,er líður á milli þess,er sólin geng ur yfir ákveðna hádegislínu,og er það hin eðlilegasta skifting tímans. En sökum hinnar mismunandi hreifingar jarðarinnar umhverfis sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni (Ecliptic), er aldrei nákvæmlega jafn-langur tími milli þess, er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leidir, að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að önnur sól sé til, og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínuna. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stundum á eftir hinni einu virkllegu sól. Er sá mismunur mestur 16 mínutur. Réttur sóltími er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo kallaði „meðal sóltími" aftur á móti, er miðaður við hina ímynduðu sól. Til skýringar má geta þess að það er að eins á tveimur dögum á árínu—á jafndægrum haust og vor—að „meðal sóltíma" og réttum sóltíma ber saman, því á þeim tveim dögum að eins er buglínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni.

---

TÍMINN er í þessu almanaki viðaður við 90. hádegisbaug. Till þess að finna meðaltíma annara staða, skal draga 4 mínútur frá fyrir hvert mælistig fyrir vestan þennan baug, en bæta 4 mínútum við fyrir hvert mælistig austan hans.

## VEDURFRÆDI HERSCHEL'S,

er segir fyrir um veðrabreytingar, er verða á öllum tunglkomum, og meðan hvert tungl er uppi árið um kring.

Tafla þessi, og athugasemdir þær, er fylgja henni, er bygð á athugunum, er starfað hefir verið grandgæfilega að um langt tímabil, og er hún samin samkvæmt nákvæmum athugunum á aðdráttarafli sólarinnar og tunglsins, með tilliti til hinnar breytilegu afstöðu þeirra við jörðina.

Það er auðvelt að sjá af töflu þessari, hvers konar veðurátta eða veðrabreyting muni verða með hverjum tunglfjórðungi, og hún fer svo nálægt því, sem fram kemur, að sjaldan eða aldrei skeikar.

| Ef nýtt tungl. fyrsta kvartil, ful tungl eða síðasta kvartil kemur | Á sumri: | Á vetri: |
|---|---|---|
| milli miðnættis og kl. 2, verður | Fagurt veður | Frost, nema sunnanvindur |
| " kl. 2 og 4 um morguninn | Kalt með skúrum | Snjór og stormasamt. |
| " " 4 og 6 " " | Regn | Regn. |
| " " 6 og 8 " " | Vindur og regn | Stormasamt. |
| " " 8 og 10 " " | Breytilegt verður | Kalt og regn, sé vindur af vestri; snjór sé vindur af austri. |
| " "10 og 12 " " | Tíðar skúrir | Kalt og hvast veður. |
| " "12 og 2 e. m. | Mjög rigningasamt | Snjór og regn. |
| " " 2 og 4 " | Breytilegt veður | Fagurt veður og hlýtt. |
| " " 4 og 6 " | Fagurt veður | Fagurt verður. |
| " " 6 og 8 " | Fagurt, sé vindur af norðvestri.. | Fagurt með frosti sé vind. af n. eða n. a. |
| " " 8 og 10 " | Rigning, sé vindur af s. eða s. v. | Regn eða snjór, sé vindur af s. eða s.v. |
| " "10 og miðnættis | Fagurt | Fagurt veður með frosti. |

### Litur loftsins um sólsetur.

Þegar himininn er gráleitur og myrkur um sólsetur, eða slái á hann grænum eða gul-grænum lit, er regn í vændum. Rautt sólarlag með skýjum, er verða myrkari, þegar fram á nóttina líður boðar einnig regn.

### Baugur um sólina.

Með baug um sólina meinum vér hina stóru hringi, eða hringparta, er liggja um sólina. Þegar baugur sést um sólina eftir gott veður, má búast við regni.

### Kóróna.

Með kórónu meinum vér smáa hringi, er sjást oft um sólina eða tunglið. Þegar kórónan fer minkandi, bendir það á regn, stækki hún, er fagurt veður í vændum.

### Regnbogar.

Regnbogi að morgni dags er álitinn boða regn ; regnbogi að kveldi, fagurt veður.

### Litur himinsins.

Þegar þykkur, djúpur blámi sést á himninum, jafnvel þótt hann sjáist gegnum skýjað loft, boðar það fagurt veður; verði bláminn ljósari (hvítari), er stormur í nánd.

### Þoka.

Þokur benda á staðviðri. Morgunþoka er vanalega horfin um hádegi.

### Skafheiður himinn.

Þegar gufuhvolfið er óvanalega skírt, og mjög stjörnubert er, og þær sýnast eins og deplar, er regn í vændum.

### Skýin.

Þegar vér athugum skýin, gefum vér gætur að, hvers konar ský það eru, hvernig þau hreyfast og hvernig þau eru í lögun. Ský þau, er menn oft nefna ,,hestatögl“ köllum vér þráðaský (Cirri). Einkenni þeirra er, að þau sýnast eins og þunnur vefur, er hangir lauslega saman eins og tagl á hesti, eða þau sýnant fléttuð saman eins og hin fjarlægu ský, er mynda sólarhringina. Litlar, reglulega myndaðar þyrpingar af skýum þessum sjást oft fyrir stöðugublíðviðri. En þráða-ský eru líka stundum fyrirboði storms. Þegar þau boða storm, eru þau vanalaga þéttari (fleiri) og hliðar þeirra skörðóttar, og þá verða þau oftast að hvítleitum, löngum skýbakka. Ský þau er alment eru kölluð ,,baðmullar-sekkir“, eða “þrumuhöfuð“, köllum vér skýja-þyrping (Cumulus). Þegar þau sjást um heitasta tíma dagsins, en hverfa með kvöldinu, er framhaldandi blíðviðri í vændum. Þegar þau aukast skyndilega, síga hægt niður í gufuhvolfið, og hverfa ekki undir kvöldið, mun brátt von á regni. Þegar sérstök smáský virðast eins og slitna frá þeim, má búast við skúrum. Ský þau er sjást vanalegast eftir miðnætti, sýnast liggja marflöt og taka yfir mikið svæði, boða fagurt veður. Lítil svört vindaský eru fyrirboði regns.

### Loftþyngdarmælir.

Þegar vér notum loftþyngdarmæli, er áríðandi að gefa gætur að

hvort hann stendur fyrir ofan eða neðan vanalega hæð, og hvort hann ,,fellur" flótt eða seint. Ef hann stendur fyrir ofan vanalega hæð og er stöðugur—smábreytist ekki —, verður sama fallega veðrið, þótt búast mætti við þykku lofti. Ef hann stendur lágt og er að "falla", er regn eða í öllu falli dimmviðri í vændum. Þegar hannn ',stigur" eða ,,fellur" skyndilega (meira en 0,01 úr þumiungi á kl., stund) bendur það á óstöðugt veður og storm.

## Ártöl nokkura merkisviðburða.

| | |
|---|---|
| Fall Trjóuborgar | 1182 |
| Stofnum Kartagóborgar | 878 |
| Stofnum Rómaborgar | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nebúkadnesar | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands | 55 |
| | Eftir Krist. |
| Jerúsalem eyðilögð af Títusi | 70 |
| Constantínus keisari snýst til kristni | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bardaginn við Hastings | 1066 |
| Krossferðir byrja | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz | 1462 |
| Columbus fann Ameríku | 1492 |
| England og Skotland sameinast | 1602 |
| Þrátíu ára stríðið byrjar | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar | 1704 |
| Friðarsamingarnir gerðir í Utrecht | 1713 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum | 1776 |
| Fyrsta nýlenda sett á stofn í Ástralíu | 1788 |
| Napóleon Bonaparte verður keisari | 1804 |
| Bardaginn við Trafalgar. Fall Nelson's | 1805 |
| Franski leiðangurinn til Moskva | 1812 |
| Bardaginn við Waterloo | 1815 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlantshaf | 1819 |
| Gullið fundið í Californíu | 1848 |
| Fyrsta alhemssýning haldin í London | 1851 |
| Dominion of Canada stofnuð | 1867 |

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8 öld. Af Norðmönnum 860.

Fyrst varanleg bygð hefst 874.

Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af, 894.

Fyrstu lög og alþing sett 930.

Fyrstur trúboði Friðrik biskup, saxneskur, 981.

Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.

Fyrsta kirkja er í ritum talinn bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gussursson, 1054.

Fyrstur fastur skóli á Hólum 1552.

Fyrstur íslenzkur rithöfundur, kunnur, og faðir íslenzkrar sagnritunar, Ari Þorgilsson, prestur, f. 1067, d. 1148.

Fyrsta Heklugos, er sögur fara af 1104.

Fyrsta klaustur, reist á Þingeyrum, 1133.

Fyrsta nunnuklaustur, í Kirkjubæ í Vestur-Skaftafellssýslu 1186

Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna), 1262—63.

Svarti dauði geysaði, 1402.

Seinni plágan 1495.

Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólsstað í Vesturhópi um 1530.

Fyrstur prentari, Jón Matthíasson, sænskur prestur.

Fyrstur lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.

Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmann Gottskálkssyni, 1540.

Fyrstur fastur látínuskóli í Skálholti 1552.

Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.

Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi bisk. 1584.

Spítali stofnaður fyrir holdsveikt fólk 1652.

Fyrsta galdrabrenna 1625 (hin síðasta 1690).

Prentsmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.

Stórabóla geisaði 1707.

Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.

Fyrst drukkið brennivín á Íslandi á 17. öld.

Fyrst fluttur fjárkláði til Íslandi 1760.

Fyrst drukkið kaffi 1772.

Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.

Hið íslenzka lærdómslistafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1779.

Ávveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálholti til Reykjavíkur 1785.

Verzlunareinokunin konunglega afnumin 1787.

Seinasta löggjafarþing haldið á Þingvöllum við Öxará 1768.

Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.

Landsyfirréttur settur á laggirnar í Rvík 1800.

Fyrsta organ sétt í Leirárkirkju, 1800.

Hólaskóli fluttur til Reykjavíkur 1801.

Landið gjört að biskupsdæmi 1801.

Haldinn fyrsti yflrréttur frá Reykjavík 1801.

Latínuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 1805.

Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.

Fyrsti vísir til fréttablaða. Klausturpósturinn kemur út 1818. (Minnisverð tíðindi ekki talin; þau koma út 1796—1808.

Prentsmiðjan flutt frá Leirárgörðum til Viðeyjar 1819

Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.

Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.

Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Rvíkur 1844.
Fyrsta alþing í Reykjavík 1845.
Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846.
Prestaskólinn settur í Reykjavík, 1847.
Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Ögará 1848.
Fyrsts blað Þjóðólfs prentað 1848.
Hrossa-sala til útlanda byrjar um 1850.
Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.
Fyrsta póstgufuskip kom til Reykjavíkur 1858.
Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.
Forngripasafnið sett á stofn í Reykjavík 1863.
Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.
ÞJóðvinafélgið stofnað 1870.
Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871.
Settur háskóli í Reykjavík 1911.

---

### Stærð úthafanna.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Norður-Íshafið | er um | 4,781,000 | ferh. míl. | flatarmál. |
| Suður-Íshafið | " " | 30,592,000 | " " | " |
| Indlandshafið | " " | 17,084,000 | " " | " |
| Atlandshafið | " " | 24,536,000 | " " | " |
| Kyrrahafið | " " | 50,309,000 | " " | " |

---

### Lengstur dagur.

| | kl. |
|---|---|
| Reykjavík | 20 56 |
| Pétursborg | 18 38 |
| Stokkhólmi | 18 36 |
| Endinborg | 17 32 |
| Kaupmannahöfn | 17 20 |
| Berlín | 16 40 |
| London | 16 34 |
| París | 16 05 |
| Victoria B.C. | 16 00 |
| Vínarborg | 15 56 |
| Boston | 15 14 |
| Chicago | 15 08 |
| Miklagarði | 15 04 |
| Cape Town | 14 20 |
| Calcutta | 13 24 |

### Þegar klukkan er 12

á hádegi í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, þá er hún í

| | | |
|---|---|---|
| New York | 12.12 | e. h. |
| St. John, Nýfundnal. | 1.37 | " |
| Reykjavík | 4.07 | " |
| Edinburgh | 4.55 | " |
| London | 5.07 | " |
| París | 5.17 | " |
| Róm | 5.53 | " |
| Berlín | 6.02 | " |
| Vínarborg | 6.14 | " |
| Calcutta, Indland | 11.01 | " |
| Pekin, Kína | 12.64 | f. h. |
| Melbourne, Ástralía | 2.48 | " |
| San Francisco | 8.54 | " |
| Lima, Perú | 12.00 | á hád |

---

# JANÚAR hefir 31 daga 1916

MÖRSUGUR

*Umskurn Krists, Lúk. 2.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| L | 1 | Nýársdagur | 11 v.v. |

*Barnamorðið í Betlehem, Matt. 2.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 2 | S.e.nýar—Þrælahald aftekið í Bandaríkjunum1865 | |
| M | 3 | | |
| Þ | 4 | Konráð Gíslason d. 1891—●Nýtt 11.45.e.m. | |
| M | 5 | Stjórnarskrá Íslands 1874 | |
| F | 6 | su. 7.56, sl. 4.18—Þréttándi (jóladagurinn gamli) | |
| F | 7 | Knútsdagur—Eldbjargarmessa | |
| L | 8 | | 12. vika vetrar |

*Þegar Jesús var 12 ára, Lúk. 2.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 9 | 1. s. e. þrettánda—Napóleon 3. d. 1873 | |
| M | 10 | | |
| Þ | 11 | Brettívumessa ☾F kv 10.38 f.m. | |
| M | 12 | Gissur jarl Þorvaldsson d. 1268 | |
| F | 13 | s.u.7.52,sl.427 Geisladagur | |
| F | 14 | Magnús lögmaður Ólafsson d. 1800 | |
| L | 15 | Hilmar Finsen d. 1886 | 13.v.v. |

*Brúðkaupið í Kana, Jóh. 15.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 16 | 2. s. e. þr.—British Museum opnað 1759. | |
| M | 17 | Benjamín Franklin f. 1706 | |
| Þ | 18 | B. Lytton d. 1873 | |
| M | 19 | Gull fundið í Californíu 1848 | |
| F | 20 | s.u. 7.46, sl.4.37 Bræðramessa ☺Fullt 3.29 f.m. | |
| F | 21 | Agnesarmessa | ÞORRI |
| L | 22 | Miður vetur | 14.v.v. |

*Jesús gekk ofan af fjallinu, Matt. 8.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 23 | 3. s. e þr.—Gustav Doré d.1882 | |
| M | 24 | Friðrik mikli f. 1712 | |
| Þ | 25 | Pálsm.—Kirkjufélag Ísl. í Vesturh. stofnað 1885 | |
| M | 26 | | |
| F | 27 | su.7.39,sl.4.49—Mósart f. 1756-☽S.kv.9.35 e.m. | |
| F | 28 | Holberg danska skáldið d. 1754 | |
| L | 29 | | 15. v. vetrar |

*Jesús gekk á skip, Matt. 8.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 30 | 4. s. e. þrettánda | |
| M | 31 | Dr. Guðbr. Vigfússon d. 1889 | |

# FEBRÚAR hefir 28 daga 1916

ÞORRI

| | | |
|---|---|---|
| Þ | 1 | Brigildarmessa—Ráðherrastjórn Íslands 1904 |
| M | 2 | Kynndilmessa—Heitdagur Norðlendinga 1365 |
| F | 3 | su.7.31,sl.4.57—N.11.06 f.m.—Mendelsshon |
| F | 4 | [Bartholdy f. 1809 |
| L | 5 | 16 v. vetrar |

*Illgresi meðal hveitisins, Matt. 13*

| | | |
|---|---|---|
| S | 6 | 5. e.þr. |
| M | 7 | Charles Dickens f. 1812 |
| Þ | 8 | Pétur mikli d. 1725 |
| M | 9 | Baldvin Einarsson d. 1833 |
| F | 10 | su.7.20, sl.5.08—Canada afh.Englendingum 1763 |
| F | 11 | Bellman tónfræð. d. 1795 F.kv. 5.20 e.m. |
| L | 12 | Abraham Lincoln f. 1809 17. v. vetrar |

*Jesús ummyndast á fjallinu,*

| | | |
|---|---|---|
| S | 13 | 6 s e þrett |
| M | 14 | Lúters síð.préd.1546 |
| Þ | 15 | |
| M | 16 | Melankton fæddur 1479 |
| F | 17 | su. 707, sl. 5.21—Angeló d. 1563 |
| F | 18 | Lúter dáinn 1546 Fullt 9.29 e.m. |
| L | 19 | N. Kópernikus f. 1473 18. v. v. |

*Verkamen í víngarði, Matt. 20.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 20 | Langafasta— GÓA |
| M | 21 | |
| Þ | 22 | Washington f. 1732 |
| M | 23 | Síð.kv 4.24 f m |
| F | 24 | su. 6.55, sl. 5.32 |
| F | 25 | |
| L | 26 | 19. v. vetrar |

*Fernskonar sáðjörð, Lúk. 8.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 27 | 1. s. í föstu—Longfellow fæddur 1807 |
| M | 28 | Klængur bisk. Þorsteinsson d. 1176 |
| Þ | 29 | |

## MARZ hefir 31 dag 1916

GÓA

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | John Westley dáinn 1791 |
| F | 2 | Sett 1. þing Bandaríkjanna 1781 |
| F | 3 | Jónsmessa (h. f.) |
| L | 4 | ●N. 10.58 e.m. 20. v. vetrar |

*Skírn Krists, Matt. 3.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 5 | Sjövikna fasta. |
| M | 6 | |
| Þ | 7 | Spreingikvöld |
| M | 8 | Jón Thoroddsen dáinn 1868. Öskudagur |
| F | 9 | Bardag. milli Milli Merrimac og Monitor 1862 |
| F | 10 | su. 6.30 sl. 5.53 |
| L | 11 | ☾F. kv. 1.33 e.m. 21. v. vetrar |

*Djöfullinn freistar Jesú, Matt. 4*

| | | |
|---|---|---|
| S | 12 | 1. s. í föstu—Síra Páll Þorláksson d. 1882 |
| M | 13 | Dr. Guðbr. Vigfússon f. 1827 |
| Þ | 14 | |
| M | 15 | |
| F | 16 | Gvöndardagur (Guðm. góði Hólab. d. 1237) |
| F | 17 | su.6.16, sl.6.04-Magnús Stephensen(gamli)d.1833 |
| L | 18 | Hinrik Ibsen f. 1828 22. v. v. |

*Kanverska konan, Matt. 15.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 19 | 2. s. í föstu—☺F. 0.27 e. m. |
| M | 20 | |
| Þ | 21 | Benediktsmessa—Jafndægur |
| | | EINMÁNUDUR |
| M | 22 | Göthe d. 1832 |
| F | 23 | Riels uppr. í Canada hefst 1885 |
| F | 24 | su. 5.59, sl. 6.13—Albert Thorvaldssen d. 1844 |
| L | 25 | Boðunardagur Marín 23. v. vetrar |

*Jesús rak út djöful, Lúk. 11.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 26 | 3. s. í föstu—☽S. kv. 11.22 e.m. |
| M | 27 | John Bright d. 1889 |
| Þ | 28 | Dymbilvika |
| M | 29 | Jón Eiríksson, konferensráð d. 1787 |
| F | 30 | |
| F | 31 | su. 5.42, sl. 6.25 |

# APRÍL hefir 30 daga 1916

EINMÁNUÐUR

L 1 | Bismark f. 1813 — 24. v. vetrar

*Jesús mettar 5000 manna, Jóh. 6.*

S 2 | 4. s. í föstu—Gambetta f. 1838—●N. 11.21 f. m.
M 3 |
Þ 4 | Oliver Goldsmith d. 1744
M 5 |
F 6 |
F 7 | su. 5.27, sl. 6.36
L 8 | Kristján IX. f. 1818 — 25. v. vetrar

*Gabriel engill sendur, Lúk. 1.*

S 9 | 5 s. í föstu—☽F. kv. 9.36 f. m.
M 10 | Þórður Sturluson d. 1237
Þ 11 |
M 12 | su. 5.15, sl. 6.47
F 13 |
F 14 |
L 15 | Abraham Lincoln skotinn 1865—Sum. af 26. v. v.

*Krists innreið í Jerúsalem, Matt. 2.*

S 16 | Pálmasunnudagur—Magnúsmessa (Eyjajarls h. f.)
M 17 | Franklín d. 1790
Þ 18 | ○F. 0.08 f. m.
M 19 | Melankton dáinn 1560 su. 4.59, sl. 6.58

HARPA

F 20 | Skírdagur—Sumard. fyrsti — 1. v. s.
F 21 | Föstd. langi
L 22 |

*Krists upprisa, Mark. 16.*

S 23 | Páskadagur—Jónsmessa (Hólab. h. s. d. 1121)
M 24 | Daníel Defoe d. 1731
Þ 25 | Þrælast. hætti 1865—☾Síð. kv. 5.38 e. m.
M 26 | Björnstjerne Björnss. d. 1910
F 27 | Herbert Spence f. 1820 — 2. v. sum.
F 28 | su. 4.46, sl. 7.08
S 29 | Krímstríðið hætti 1856

*Jesús kom að luktum dyrum, Jóh. 20.*

S 30 | 1. s. e. páska

# MAÍ hefir 31 dag 1916

HARPA

| | | | |
|---|---|---|---|
| M | 1 | Tveggja postula messa | |
| Þ | 2 | Karl Linné f. 1707 Nýtt 0.29 f. m. | |
| M | 3 | Krossmessa á vori (fundinn krossinn) | |
| F | 4 | | 3. v.s. |
| F | 5 | su.4.25,sl.7.28—Napóleon Bona. d.1821 | |
| L | 6 | | |

*Jesús er góði hirðirinn, Jóh. 10.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 7 | 2. s. e. páska | |
| M | 8 | John Stuart Mill d. 1873 | |
| Þ | 9 | | |
| M | 10 | Eldaskildagi—F. kv. 3.47 f.m. | |
| F | 11 | | 4. v. sumars |
| F | 12 | su.4.16,sl.7.38—J. Herschel d.1871 | |
| L | 13 | | |

*Krists burtför til föðursins, Jóh. 16.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 14 | 3. s. e. páska—Vinnuhjúaskild | |
| M | 15 | Hallvarðsmessa | |
| Þ | 16 | | |
| M | 17 | Tómas Sæmundsson d. 1841—Fullt 9.11 f.m. | |
| F | 18 | Magnús prest.Jónsson,Grenjaðarst.d.1889—5 v.s. | |
| F | 19 | su. 4.05, sl. 7.49—Gladstone d. 1898 | |
| L | 20 | | SKREFLA |

*Sending heilags anda, Jóh. 16.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 21 | 4. s.e. páska—Dýrid.—Chr. Columbus d. 1506 | |
| M | 22 | Sæm. froði d. 1133 | |
| Þ | 23 | H. Ibsen d. 1906 | |
| M | 24 | Síð.kv.0.16 f.m.—Kopernicus d. 1543 | |
| F | 25 | Urbanusmessa | 6. v. sumars |
| F | 26 | Jónas Hallgrímsson d. 1845 | |
| L | 27 | Calvín d. 1564 | |

*Biðjið í Jesú nafni, Jóh. 16.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 28 | 5. s. e. páska—Gissur biskup Ísleifsson d. 1118 | |
| M | 29 | Gísli Brynjólfsson d. 1888 | |
| Þ | 30 | Trinitatis—Eggert Ólafsson d. 1768 | |
| M | 31 | Jón Guðmundsson, ritstj. d. 1875—N.2.37 e.m. | |

# JÚNI hefir 30 daga 1916

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | Skerpla |
| F | 1 | Garibaldi d. 1883 | 7. v. sum. |
| F | 2 | su. 3.53 sl. 8.05 | |
| L | 3 | Síra Jón Bjarnason, D. D., d. 1914 | |
| | | *Þegar huggarinn kemur, Jóh. 15.* | |
| S | 4 | 6. s. e. páska—Vísi.Gísli d. 1696 | |
| M | 5 | | |
| Þ | 6 | Alexander mikli d. 365 f. Kr. | |
| M | 7 | Tómas Sæmundsson f. 1807 | |
| F | 8 | Jón Hjaltalín, landlæknir d. 1882 | 8. v. s. |
| F | 9 | | [☾F. kv. 6.59 e. m. |
| L | 10 | | |
| | | *Hver mig elskar, Jóh. 14.* | |
| S | 11 | Hvítasunnudagur | |
| M | 12 | | |
| Þ | 13 | Jón Sveinsson, landlæknir d. 1803 | |
| M | 14 | Steingrímur biskup Jónsson d. 1845 | |
| F | 15 | su. 3.49, sl. 8.13--☺Fullt 4.42 e. m. | 9 v. sumars |
| F | 16 | | |
| L | 17 | Jón Sigurðsson f. 1811 | |
| | | *Kristur og Nikódemus, Jóh. 3.* | |
| S | 18 | Trínitatis | |
| M | 19 | Björn ristst j. Jónsson Norðanf. d. 1816 | |
| Þ | 20 | | |
| M | 21 | Kristján Jónsson, skáld. f. 1843 | Sólmanuður |
| F | 22 | Sólstöður; leng. dagur-☽Síð kv. 8.16 f. m. | -10. v. s. |
| F | 23 | | |
| L | 24 | Jónsm.---Kristni lögt. á Ís. 1000 | |
| | | *Hinn auðugi maður, Lúk. 16.* | |
| S | 25 | 1. s. e. trin. | |
| M | 26 | Jón alþm. á Gautl. d. 1889 | |
| Þ | 27 | | |
| M | 28 | Björn á Skarðsá d. 1648 (f. 1690) | |
| F | 29 | Pétursmessa og Páls. | 11. v. s. |
| F | 30 | ●Nýtt 5.43 f. m.—Jón biskup Vigfússon d. 1690 | |

JÚLÍ hefir 31 dag 1916

Sólmanudur

| | | |
|---|---|---|
| L | 1 | Dominiondagur |
| | | *Hin mikla kvöldmáltíð, Lúk. 14.* |
| S | 2 | 2.s.e.trin.—Þingmaríum. (vitjunard. Maríu) |
| M | 3 | Konráð Gíslason f. 1808 |
| Þ | 4 | Frelsisd. Bandaríkjanna (1776) |
| M | 5 | Ísleifur bisk. Gissursson d. 1080 |
| F | 6 | Jóhann Huss brendur 1415 12. v. sumars |
| F | 7 | su. 4.01, sl. 8.10 |
| L | 8 | Seljumannamessa—☾F.kv.6.55 f.m. |
| | | *Hinn týndi sauður, Lúk. 15.* |
| S | 9 | 3.s.e.trin. |
| M | 10 | Jóhann Calvin f. 1509 |
| Þ | 11 | Benediktsmessa |
| M | 12 | Julius Cæsar f. 100 f. Kr. |
| F | 13 | Margrétarmessa 13. v. sumars |
| F | 14 | ☺Fullt 11.40 e. m. |
| L | 15 | Sviðh. h.s.—Krossfarendur tóku Jerúsalem (1099) |
| | | *Verið miskunsamir, Lúk. 6.* |
| S | 16 | 4.s.e.trin. |
| M | 17 | |
| Þ | 18 | Jón píslarvottur Þorsteinss. d. 1627 |
| M | 19 | |
| E | 20 | Þorláksmessa (á sumri) 14 v. sumars |
| F | 21 | su.4.15,sl.7.55—☽Síð. kv. 6.33 f. m. |
| L | 22 | Kolbeinn ungi Arnórsson d. 1247 |
| | | *Jesús kennir af skipi, Lúk. 5.* |
| | | Heyannir |
| S | 23 | 5.s.e.trin.—Hundad. byrja—Hvamm-Sturla d. 1183 |
| M | 24 | |
| Þ | 25 | Jakobsmessa |
| M | 26 | |
| F | 27 | Atlanshafs-ritsíminn fullgerður 1866 15 v. sumars |
| F | 28 | su.4.27,sl.7.44—Kopavogseiðar 1662 |
| L | 29 | Ólafsmessa h. f. ☺Nýtt 9.15 e.m |
| | | *Réttlœti faríseanna, Matt. 5.* |
| S | 30 | 6.s.e.trin.—William Penn d. 1718—Bismark d. 1898 |
| M | 31 | Kolbeinn kaldaljós Árnórss. d. 1246 |

# ÁGÚST hefir 31 dag 1916

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HEYANNIR |
| Þ | 1 | Bandadagur—Jón Espólín d. 1836 | |
| M | 2 | Ben. Sveinsson, sýslum. d. 1899 | |
| F | 3 | Ólafsmessa--Þormóður Kolbrúnarsk. d. 1030--16v. s | |
| F | 4 | su. 4.25, sl. 7.36—H. C. Anderson d. 1875 | |
| L | 5 | Br. Sveinsson, biskup d. 1675 | |
| | | *Jesús mettar 4000 manna, Mark. 8.* | |
| S | 6 | 7. s. e. trin.--Krists dýrð--☾ F. kv. 4.06 e. m. | |
| M | 7 | Spánska flotanum eytt 1588 | |
| Þ | 8 | Canning d. 1827 | |
| M | 9 | Capt. Marryat d. 1818 | |
| F | 10 | Lárentiusarmessa | 17. v. sumars |
| F | 11 | su. 4.48, sl. 7.24 | |
| L | 12 | | |
| | | *Um falsspámenn, Matt. 7.* | |
| S | 13 | 8. s. e. trin.—Bóluhjálmar d. 1875—☺ Fullt 7. f. m. | |
| M | 14 | Þórður biskup Þorláksson f 1637 | |
| Þ | 15 | Maríumessa h. f.—Napóleon mikli f. 1769 | |
| M | 16 | | |
| F | 17 | Sveinbjörn Egilsson d. 1852 | 18. v. sumars |
| F | 18 | su. 4.56, sl. 7.99 | |
| L | 19 | Gestur Pálsson d. 1891 | |
| | | *Hinn rangláti ráðsmaður, Lúk. 16.* | |
| S | 20 | 9. s. e. trin.—Wm Booth d. 1912 ☽ S. kv. 7.53 f. m. | |
| M | 21 | Njálsbrenna 1011 | |
| Þ | 22 | Symphonianusmessa | |
| M | 23 | su. 5.07, sl. 6.56 | |
| | | | TVÍMANUÐUR |
| F | 24 | Hundadagar enda-B. Thor. d. 1841 | 19. v. s. |
| F | 25 | Pétur Guðjónss. d. 1877 | |
| L | 26 | Ágústin d. 430 | |
| | | *Jesú grætur yfir Jerúsalem, Lúk. 19.* | |
| S | 27 | 10. s. e. trin.—Finnur Magnússon f. 1781 | |
| M | 28 | Göethe f. 1749--● Nýtt 0.05 f m | |
| Þ | 29 | Hofuðd.—Jóh. skírari hálshöggvinn | |
| M | 30 | Jón biskup Vidalín d. 1720 | |
| F | 31 | Jón konferenzráð Eiríksson f. 1728 | 20 v. sum. |

## SEPTEMBER hefir 30 daga 1916

TVÍMANUDUR

| | | |
|---|---|---|
| F | 1 | su. 5.18, sl. 6.41 |
| L | 2 | Grundtvig d. 1872 |

*Faríseinn og tollheimtumaðurinn, Lúk. 18.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 3 | 11.s.e.trin.--Cromwell d. 1658--☾F.kv.11.27 e.m. |
| M | 4 | Franska lýðv. stofn. 1870 |
| Þ | 5 | |
| M | 6 | McKinley forseti skotinn 1901 |
| F | 7 | Ólafur Davíðsson d. 1903 21. v. s. |
| F | 8 | su.5.28,sl.6·26-Maríum.-Jerúsalem hert.70 |
| L | 9 | Svoldaror. 1000. Fall Ólafs Tryggvas. |

*Sá hinn daufi og málhalti, Mark. 7.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 10 | 12. s. e. trin. |
| M | 11 | ☺Fullt 3.31 e. m. |
| Þ | 12 | Bard. við Quebec fall Wolfs hersh. 1759 |
| M | 13 | Bretar taka Quebec 1759 su. 6.38 sl.6.11 |
| F | 14 | Wellington d. 1852 22. v. sumars |
| F | 15 | |
| L | 16 | Moscow-borg brend 1812 |

*Hinn miskunsami Samverji, Lúk. 10.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 17 | 13. s. e. trin.—Willard Fiske d. 1904 |
| M | 18 | Fyrsti banki á Íslandi 1885 |
| Þ | 19 | ☽S.kv. 0.35 f.m. su. 5.50, sl. 5.55 |
| M | 20 | Geir biskup Vídalín d.1823 |
| F | 21 | Matheusmessa 23. v. sumars |
| F | 22 | |
| | | HAUSTMANUDUR |
| L | 23 | Snorri Sturluson veginn 1241 |

*Tíu líkþráir, Lúk. 17.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 24 | 14. s. e. trin.—Jafndægur á hausti |
| M | 25 | Björn Gunnlaugsson f. 1788 |
| Þ | 26 | Kristján X. Danakon. f. 1870 |
| M | 27 | Fyrsta járnbraut á Englandi 1825- su.6.00,sl.5.39 |
| F | 28 | L. Pasteur d 1895—●Nýtt 2.34 f.m. 24. v. s. |
| F | 29 | |
| L | 30 | Hítardalsbrenna |

# OKTÓBER hefir 31 dag 1916

HAUSTMANUDUR

*Enginn kann tveim herrum að þjóna, Matt. 6*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 1 | 15. s. e. trin. | |
| M | 2 | | |
| Þ | 3 | Pétur Pétursson biskup f. 1808 | |
| M | 4 | ☾F. kv. 3.13 f. m. | |
| F | 5 | Jón Thoroddsen f. 1819 | 25. v. sumars |
| F | 6 | su. 6.11, 5.25—Tennyson d. 1892 | |
| L | 7 | Edgar Poe d. 1849 | |

*Ekkjunnar sonur af Nain, Lúk. 7.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 8 | 16. s. e. trin. | |
| M | 9 | Chicago brann 1871--Diónýsíusm. | |
| Þ | 10 | | |
| M | 11 | ☺Fullt 2.01 f.m | |
| F | 12 | Columbus fann Ameríku 1492 | 26. v. sumars |
| F | 13 | su. 6.25, sl. 5.10 | |
| L | 14 | Kalixtusmessa | |

*Vatnssjúki maðurinn, Lúk. 14.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 15 | 17. s. e. trin.—Gregoriska tímatalið innleitt 1582 | |
| M | 16 | | |
| P | 17 | | |
| M | 18 | Lúkamessa-Brynj. Péturs.d. 1851--☽S.kv.8.09 e.m | |
| F | 19 | Einar Ásmunds. í Nesi d. 1893--Veturn. af 27. v. s. | |
| F | 20 | su. 6.33, sl. 4.50 | |
| L | 21 | Sira Jón Þorláksson d. 1819 | 1 v.v |

GORMANUDUR

*Hvers son er Kristu ? Matt.. 22.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 22 | 18 s e trin.—Flugumýrarbrenna 1253 | |
| M | 23 | W. Penn steig á land í Amer. 1681 | |
| Þ | 24 | | |
| M | 25 | | |
| F | 26 | Moltke hersh. f 1800—●Nýtt 3.37 e. m. | |
| F | 27 | su 6 44, sl 4 42—Síra Hallgr Pétursson d 1674 | |
| L | 28 | Howard-háskólinn stofnaður 1636 | 2 v vetrar |

*Limafallssjúki maðurinn, Matt. 9.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 29 | 19 s e trin.--Síra Arnljótur Ólafsson d 1904 | |
| M | 30 | Gambetta f 1832 | |
| Þ | 31 | Reformation Lút. 1517 | |

NÓVEMBER hefir 30 daga 1916

GORMANUDUR

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | Allra-heilagra-messa--Jón Loptsson í Odda d 1197 |
| F | 2 | Esaías Tegnér d 1846--☾F kv 0 51 e m |
| F | 3 | su 6 57, sl 4 30 |
| L | 4 | 3 v vetrar |

*Jesús prédikar um sœlu, Matt. 5.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 5 | 20 s e trin. |
| M | 6 | Fall Gustafs Adolfs 1632 |
| Þ | 7 | Jón Arason lífl. 1550 |
| M | 8 | |
| F | 9 | Skúli laudfóg. d 1794--☉Fullt 3 18 e m |
| F | 10 | su 8 08, sl 5 20---Lúter f 1483 |
| L | 11 | Marteinsmessa--Williard Fiske f 1831 -4 v vetrar |

*Konungsmaðarinn, Jóh. 4.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 12 | 21 s e trin. |
| M | 13 | |
| Þ | 14 | |
| M | 15 | |
| F | 16 | Jónas Hallgrimsson f 1807 |
| F | 17 | su 7 19, sl 4 13--☽S kv 5 01 e m |
| L | 18 | Hannes stiptamtm. Finsen d 1892 5 v vetrar |

*Tíu þúsund punda, Matt. 18.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 19 | 22 s e trin.---Albert Thorvaldsen f 1770 |
| M | 20 | Vígð Hóladómkirkja 1763 |
| Þ | 21 | Maríum; þríhelgar |
| | | ÝLIR |
| M | 22 | Ceselíumessa |
| F | 23 | Klemensmessa |
| F | 24 | su 7 30, sl 4 05--Björn ráðh. Jónsson d 1912 |
| L | 25 | Katrínarmessa ●Nýtt 3 50 f m 6 v vetrar |

*Skattpeningurinn, Matt. 22.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 26 | 23. s. e. trin.—Konráðsmessa |
| M | 27 | |
| Þ | 28 | |
| M | 29 | |
| F | 30 | Andrésmessa |

# DESEMBER hefir 31 dag 1916

Ýlir

| | | | |
|---|---|---|---|
| F | 1 | su 7 39, sl 3 59--☾F kv 8 56 f m | |
| L | 2 | Bardaginn við Auster.itz 1805 | 7 v vetrar |
| | | *Krists innreið í Jerúsalem, Matt. 21.* | |
| S | 3 | 1 s í jólaföstu—Steinn biskup Jónsson d 1739 | |
| M | 4 | Helgi biskup Thorderson 1867 | |
| Þ | 5 | Mózart d 1791 | |
| M | 6 | Bened.próf.Kristjánss. d 1903 | |
| F | 7 | Jón Sigurðsson d 1879 | |
| F | 8 | su 7 47, sl 3 57--Maríumessa | |
| L | 9 | Milton f 1608--☺Fullt 7 44 f m | 8 v vetrar |
| | | *Teikn á sól og tungli, Lúk. 21.* | |
| S | 10 | 2 s í jólaföstu Alexander Dumas, sr d 1872 | |
| M | 11 | | |
| Þ | 12 | Skúli fógeti f 1711 | |
| M | 13 | Lucíumessa | |
| F | 14 | George Washington d 1799 | |
| F | 15 | su 7 54, sl 3 57 | |
| L | 16 | Beethoven f 1770 | 9 v vetrar |
| | | *Jóhannes í böndum, Matt. 11.* | |
| S | 17 | 3 s í jólaföstu-Páll amtm.Briem d 1904 | |
| M | 18 | | [☽S kv 1.06 e m |
| Þ | 19 | Björn próf. Halldórsson d 1882 | |
| M | 20 | Stefán amtm. Stephensen d 1820 | |
| F | 21 | Tómasmessa | |
| | | | Mörsugur |
| F | 22 | su 7 57, sl 4 01---Sólhvörf; skemstur dagur | |
| L | 23 | Þorláksmessa---Páll Ólafsson skáld d 1905 -10 v v | |
| | | *Vitnisburður Jóhannesar skírara, Jóh. 1.* | |
| S | 24 | Aðf. d jóla-Nóttin helga ●Nýtt 3 31 e m | |
| M | 25 | Jóladagur--Heitdag. Eyf. í Svartad. 1402 | |
| Þ | 26 | | |
| M | 27 | Magnús konf. Stephensen f 1762 | |
| F | 28 | Oddur Einarsson biskup d 1630 | |
| F | 29 | su 7 69, sl 4 04--Gladstone f 1809 | |
| L | 30 | Bjarni Thorarensen f 1786 | 11 v vetrar |
| | | *Símon og Anna, Lúk. 2.* | |
| S | 31 | Gamlársdagur-- ☾F kv 7 07 f m | |

# Almanak.

22. ár. WINNIPEG 1915

## ÁTTRÆÐISAFMÆLI
## SÍRA MATTHÍASAR JOCHUMSSONAR.

Enginn Íslendingur, sem uppi hefir verið með nútíðarkynslóð þjóðar vorrar, hefir áunnið sér kærleika hennar neitt á borð við skáldið Matthías Jochumsson. Mörg hafa skáldin uppi verið með honum og að mörgum þeirra hefir mikið kveðið. En þó þeim hafi fjölgað svo að segja með hverju ári, hefir enginn þeirra getað látið sér hepnast að ná í lárviðarsveiginn hans. Hann hefir frá fyrstu stund, er hann fór að láta til sín taka í bókmentunum, betur sungið sig inn í hjarta þjóðar vorrar, en nokkurt skáld annað, síðan Jónas Hallgrímsson leið. Frá því að *Útilegumennirnir* komu út 1864 og þangað til síðustu ljóðin hans birtust, þetta ár sem nú er að líða, er langur tími. Allan þann tíma má heita, að síra Matthías hafi verið sí-yrkjandi og sí-ritandi. Og alt það sem frá honum hefir komið,þó það eðlilega eigi hafi haft alt sama gildi fremur frá honum en nokkurum manni öðrum,er svo mikið ritar, virðist það alt hafa átt eitthvert erindi til íslenzkrar þjóðar. Hún hefir ávalt lagt eyrað við, þegar hann hefir beðið sér hljóðs. Og oftast hefir hún unnað honum meira en ekki minna eftir að hafa á

hann hlýtt, einkum þegar hann hefir ort, en líka þó, þegar er hann hefir talað í óbundnu máli, hvort sem verið hefir örstutt blaðagrein, eða lengri lestur. Meiri og meiri lotningu hefir hún borið með líðandi árum fyrir hinum skygna og sívakanda anda hans. Það er eins og hann hafi hvert skifti snortið einhvern sofanda streng í brjósti hennar, látið sér hepnast að segja eitthvað, sem beðið hafði ósagt undir hjartarótum hennar. Útilegumennirnir, sem seinna voru nefndir *Skugga-Sveinn* (1898), eı ekki leikrit samið eftir öllum listarinnar reglum, eins og leikritin, sem nú eru að birtast og skáld vor að verða fræg fyrir, langar leiðir út um heim jafnvel. En fleiri hafa skemt sér við Skugga-Svein en nokkurt annað íslenzkt leikrit enn sem komið er; það ætla eg óhætt að segja. Það hefir verið leikið upp aftur og aftur ár eftir ár, bæði af þeim sem kunnu og ekki kunnu, fram að síðustu árum. Og stöðugt hefir leikelsk alþýða safnast saman til að sjá það enn leikið. Ekki vegna listarinnar, eins og eg tók fram ; henni kann í mörgum efnum að vera ábótavant ; enginn mun fúslegar við það kannast, en síra Matthías sjálfur. En andi eftirlætisskálds þjóðar vorrar er þar ungur, fjörugur, jafnvel ærslafullur, og þar er eitthvað af hinni máttugu trú hans á sigur hins góða yfir hinu illa. Og til móts við eftirlætisskáldið sitt hefir íslenzk alþýða komið hvert sinn, er leikið hefir verið, og hún hefir fyrirgefið gallana, en glaðst eins og barn yfir tilþrifunum. Eitthvað svipað má einnig segja um fyrstu þýðingu síraMatthíasar, *Friðþjóðssögu* Esajasar Tegnér, sem út kom 1866, tveim árum síðar en Skugga-Sveinn. Hafa nokkuru sinni þýdd ljóð, eftir erlent skáld, vakið annan eins fögnuð, jafn-almennan og eindreginn, í sálu þjóðarinnar, sem þýtt hefir verið fyrir, eins og Friðþjófssaga vakti með Íslendingum ? Ljóðin þau voru lærð og sungin landshornanna á milli. Þau höfðu

endurfæðst í höndum Matthíasar, fjöldinn lét sér naumast til hugar koma að það væri erlend ljóð. Það var líka eins og Íslendingar ætti efnið. Friðþjófssaga var bein af hennar beinum og hold af hennar holdi. Skyldi Svíinn hafa skilið ljóð Tegnérs eins vel og Íslendingurinn? Sænsk alþýða naumast. Hvergi á Norðurlöndum ætla eg, að Friðþjófssaga hafi orðið alþýðubók í sama skilningi og á Íslandi, þar sem hver vinnumaður og vinnukona lærði ljóðin og söng hvert í kapp við annað. Svíinn kendi landanum um leið að syngja og hafi hann þökk fyrir; þar er hann meistarinn á Norðurlöndum og jafnvel þó víðar væri leitað. En hve oft sem *Friðþjófur og Björn* hefir verið sungið og hve oft sem það kann enn að verða, ræður það eigi svo litlu, að þjóð vor verður var við tungutak síra Matthíasar; það er hann sem á orðin íslenzku og hreimurinn þeirra gengur til hjartans. Skáldið gat naumast verið hepnara í vali með fyrstu tilraun til að þýða. Það var eins og hann þegar með henni flygi upp í fang þjóðar sinnar. Ekki náðu hin frumortu söguljóð skáldsins annarri eins hylli: *Grettisljóð*. Þó hrjóta þar neistar svo að segja í hverju spori. En Matthías er fyrst og fremst *lýriskt* skáld. Þeirri gáfu er hann gæddur með afbrigðum. En í henni felst sú takmarkan, að fæst lýrisk skáld skapa samfeld söguljóð, eða hetjuljóð, er steypt sé svo í einu móti, að heildin hrífi hugann og hetjumyndin komi fram með glöggum og sérkennilegum ummerkjum. Svo eru líka sögur vorar sjálfar svo mikil listaverk og hafa grafist svo djúpt í huga þjóðar vorrar, að torvelt er að umskapa þær í annað listaverk, er taki hinu fyrra fram. En mikill visdómur er víða í Grettisljóðum og sjaldan hefir andi skáldsins tekið jafn-sterklega á að flétta inn djúpar og skáldlegar hugmyndir og þar. Glíman milli

Grettis og Gláms verður glíma milli heiðninnar og kristindómsins, Krists og Óðins :

„Svo takast þeir á,—
hreystin og fordæðan forn og grá
ofurhuginn og heiptin flá,
æskan með hamstola hetjumóð,
við heiðninnar dauðablóð,
landstrúin nýfædda, blóðug og blind,
og bölheima forynju-mynd
harkan og heimskan,
þrjózkan og þjóðin
krafturinn, kyngin,
Kristur og Óðinn!"

En stuttu kvæðin hans lifa sjálfsagt lengst. Þar fær hans lýriska skáldgáfa bezt að njóta sín. Tilþrifin eru þar stöðugt dásamleg. Hann kann að þrífa því í brjóstið, sem hann yrkir um hvert skifti. Það er eins og hann kryfji hvert yrkisefni á augabragði, standi með hjarta þess í hendi sér og sýni oss hjartaslögin. Islenzkan leggur alla fegurð sína og auðlegð á tungu hans. Hann er líklega allra Íslendinga orðfimastur maður. Enginn stendur honum þar á sporði nema Einar Benediktsson. Andi málsins er fæddur í honum með svipuðum hætti og átti sér stað með Jónas Hallgrímsson. Nútíðarmál og fornaldarmál fallast í faðma. Eddumál, sögustíll, miðalda-vikivakar og tungutak tuttugustu aldar barnanna er soðið saman í einn ógnarbeittan brand, sem svo er stiltur að sveigja má í hring og ávalt tekur syngjandi við sér aftur. Ósjaldan er orðgnóttin svo mikil, að hún er fyrir ; ferð hugmyndanna svo hröð, að eitt hugtakið hverfur á bak við annað. En þó eru ljóð hans í raun og veru lang-flest undur-ljós og skiljanleg og íburðurinn minni en hjá mörgum öðrum. Hæstum tónum nær hann, þegar er hann yrkir sem allra-einfaldast :

„Dauðinn er lækur, en lífið er strá,
skjálfandi starir það straumfallið á.

Dauðinn er hafsjór, en holdið er strá;
en sálin er sundlétt og sökkva ei má."

Eða þegar hann segir í öðru kvæði:

„En hvað eg annars heyrði og sá
ég hef ei vit að segja frá.

Og alt vort líf það er opin vök;
þú átt eigi, maður, þar á sök.

Og gef þú ei slysin guði að sök;
því guð er sjálfur í hverri vök."

Flestum kemur saman um, að óðlist Matthíasar hafi komist einna hæst í kvæðum eins og Hallgrímur Pétursson og Eggert Ólafsson og víst er um það, að þau kvæði og ýms önnur, líkrar tegundar, eru líkleg til að verða jafn-gömul íslenzkum bókmentum. Annars er svo mýmargt af kvæðum hans, sem bera snildar-einkenni á sér og eru svo hrein gullkorn, að sá verður ávalt í býsna miklum vafa, sem ætlar sér að gera úrval, hverju hann skuli hafna.

Þegar farið er að gera sér grein þess, hvers vegna ljóð Matthíasar hafi náð svo mikilli ástsæld með þjóð vorri, virðist mér það svar liggi næst, að þar hafi íslenzk þjóð, eða sú kynslóð, sem uppi hefir verið með skáldinu, fundið þann hugsunarhátt, þann skilning á lífinu og tilverunni allri, sem henni er geðfeldastur. Fegurstu hugsjónir aldarinnar hefir skáldið gert að sínum hugsjónum, og hefir gert alt, sem í hans valdi stendur, til þess að kenna þjóð sinni að elska þær honum jafn-heitt og bera fyrir þeim lotningu sem mesta. Öll þessi mörgu ár hefir skáldið verið að syngja framfara-hugsjónir mannkynsins inn í hjarta þjóðar sinnar. Hann hefir alls staðar varpað sér í þann strauminn. Afturhaldinu hefir hann haft ímugust á. Framsókninni hefir hann fylgt af lífi og sál í öllum efnum. Skilningurinn á stjórnmálabaráttunni er líklega einn veikasti punkturinn. Sjálfstæði-þrá í stjórnmálum hefir hann ekki blásið þjóð vorri í

brjóst með ljóðum sínum á líkan hátt og Björnstjerne Björnson með Norðmönnum. Stjórnmáladeiluna alla hefir hann leitt hjá sér og líklega með réttu. Gáfur hans liggja ekki á því sviði. Honum hefir ávalt verið vel við Dani, sökum menningar þeirra og bókmenta. Honum hefir fundist það ofurmikill óþarfi, að Íslendingar sé að eiga í nokkuru stjórnmálastappi við þá. Báðir eigi að vera góðir vinir og láta sér lynda það sem orðið hefir uppi á tening. Sú varð stefnan í Þjóðólfi, þegar hann var ritstjóri hans frá 1875—80, þótt hún ætti að verða önnur í fyrstu. Sjálfsstæði-þrá þjóðar vorrar hefir aukist og styrkst að miklum mun um daga Matthíasar. En það verður í rauninni ekki með sönnu sagt, að hann eigi þar mikinn hlut að máli, nema þá óbeinlínis. Hann hefir lagt drjúgan skerf til andlegs þroska hennar og sjálfstæðis yfirleitt. Og óbeinlínis hefir það eflaust gert hugann stæltari á stjórnmálasvæðinu. En eg get hugsað mér að dálæti þjóðar vorrar við eftirlætisskáld sitt hefði enn meira orðið, ef hann hefði verið gæddur álíka eldmóði á stjórnmálasviðinu og öðrum sviðum. Þjóðernistilfinningin er svo sterk með þjóðunum, að þær heimta að skáldin syngi þeim darraðarljóð einnig í stjórnmálabaráttunni. Heimsborgarahugmyndin hefir legið Matthíasi nær. Og hver veit, nema þau verði endalok heimsófriðarins mikla, sem sem nú gesar, að meira bandalag verði með þjóðunum eftir en áður, að Norðurálfu-þjóðirnar myndi eitt bandalag eða Bandaríki, og meiri áherzla verði lögð á hið sameiginlega en hið sérstaka. Þá öld myndi skáldið áttræða feginn vilja lifa, því sú stefna skilst mér að muni eiga flest ítök í huga hans.

Að öðru leyti hafa allar hugsjónir aldarinnar verið óskabörn skáldsins. Mannúðin hefir verið eitt af aðal-einkennum í hugsunarhætti aldarinnar, þó nú hafi henni orðið tilfinnanlegur fótaskortur. Mannúð-

in er einkenni allra ljóða Matthíasar. Hann hefir kent til með olnbogabörnunum. Hann hefir unnað jafnréttinu, — jafnréttinu í mannfélaginu, jafnrétti karla og kvenna, jafnrétti allra manna yfirleitt, — án þess þó að fara með *socialista*-kenningar eða jafnaðarmensku í þeim skilningi. Og hann hefir haft óbilandi trú á sigurmátt hins góða. Það er ekki tilviljan ein, að orðin: „Lífið er sigur og guðleg náð" hrutu honum af vörum. Það er insti kjarni lífsskoðunar hans. Sú trú er svo sterkur þáttur eðlis hans, að um leið og hún væri tekin frá honum, væri ljósið í sálu hans slökt, — hann sæi ekki til dags upp frá því. Eldmóðurinn, sem er í ljóðum hans, hrifningin, sem yfir honum er, þegar hann yrkir, og þeir komast í, sem ljóð hans lesa, er borin og studd af þessari trú. Og þegar eg er að gera mér grein þess, hví þetta skáld hafi öðlast ástsæld þjóðar sinnar um fram önnur, nem eg ávalt staðar fyrir framan þetta. Hann hefir látið sér takast um fram aðra menn að syngja það traust inn í huga þjóðar sinnar, að engu sé að kvíða, tilveran sé góðum höndum, sannleikurinn vinni sigur á endanum, þótt hann kunni að lúta í lægra haldi í bili, — hverju góðu málefni sé borgið, ef drengilega sé barist og leikurinn fagur. Við sönginn hans hefir líka þjóð vorri aukist hugur og dugur; um hans daga hefir hún færst í ásmegin í samanburði við það sem var. Eg geri mér í hugarlund, að eiginlega hafi ekkert skáld síðan á dögum Hallgríms Péturssonar aukið eins þrótt þjóðar vorrar og framsóknarhug í baráttunni fyrir tilverunni og Matthías Jochumsson. En það er líka hið eiginlega ætlunarverk skáldsins. Það skáld nær ávalt traustum tökum á huga þjóðar sinnar, sem bezt lætur sér hepnast þetta. Og á þeim skáldum þurfum vér mest að halda.

Þessi bjartsýna sigurtrú ætla eg sé þungamiðjan í skáldskap hans. Hún birtist svo að segja í hverju

ljóði, hvort heldur það er fult gáska eða þrungið alvöru. Vegna hennar er hann í huga þjóðar vorrar skáldið af guðs náð'. Af því hann hefir átt hana, hefir hann náð 'hæstum tónum af öllum landsins sonum' og þjóð vor elskar hann áttræðan—og margáttræðan — vegna þess, að hann hefir gert henni bjart fyrir augum.

Leikritaskáldskapur Matthíasar stendur nokkuð á baki ljóðum hans, enda hefir hann naumast lagt aðra eins rækt við samningu þeirra og annars, en skoðað þau fremur sem hjáverk og dægradvöl. Leikritanna vegna hefði hann aldrei orðið sá óskmögur þjóðar sinnar, er raun hefir á orðið. En ljóðskáldið hefir borið leikskáldið uppi. Leikirnir hafa verið látnir njóta ljóðanna, þó hvarvetna verði vart hins arnfleyga anda skáldsins. Næst Skugga-Sveini voru Vesturfararnir, ritaðir 1875, þó ekki kæmi þeir út á prenti fyrr en 1898; Jón Arason kom út 1900 og Aldamót 1901. Miklu meiri ávinningur hefir bókmentum vorum orðið að þýðingum hans úr öðrum tungumálum af nokkurum helztu bókmentagersemum heimsbókmentanna og er óhætt að segja, að með þeim hefir hann unnið hið þarfasta starf. Af hinum heimsfrægu leikritum *Shakespeare's* hefir hann þýtt ekki færri en fjögur. Macbeth 1874, Hamlet 1878, Othello 1882, Romeo og Juliet 1887. Leikrit þessi hafa reynst heiminum einna mestur menningarmiðill í bókmentum nýrri tíma, og er það stór og mikill ávinningur þjóð vorri að eiga þau á sinni tungu. Manfred eftir Byron kom út 1875, og tveim árum síðar lögðu þeir saman Matthías og Steingrímur í *Svanhvít* (1877), safn nokkurra hinna ágætustu ljóða annarra þjóða, sem náð hafa hinni mestu hylli hvarvetna þar sem Íslendingar búa. Árið 1898 kom út þýðing hans af Brandi eftir *Henrik Ibsen.* Ekki er það tilviljan ein, að skáldið lenti einmitt á því riti Ibsens til að

færa það í íslenzkan búning. Trú og siðferði-kenningar hafa átt sterkari ítök í huga Matthíasar en flest annað. Það kemur meðal annars í ljós í því, hvað hann velur til að þýða. Engar þýðingar hans eru snjallari en á ljóðum þýzka skáldsins *Karls Gerok*. Líklega hefir skáldinu ekkert látið jafnvel að þýða og þau ágætu trúarljóð. Andi Matthíasar er svo líkur og náskyldur skáldanda Geroks, að vart verður fagnaðarins í sálu þýðandans svo að segja í hverri línu. Þá má ekki heldur gleyma Þorgeiri í Vík og mörgum hinna ágætustu kvæða norsku skáldanna. Eftir að Brandur kom út 1898, hefir hann þýtt tvö leikrit önnur: Gísli Súrsson 1902, eftir enska skáldkonu, og Bóndinn, eftir norska skáldið *Andreas Hovden* 1907. Oft hefir þessum þýðingum Matthíasar verið það til foráttu fundið, að þær sé hroðvirknislega af hendi leystar. Hann er einn þeirra manna, er ekki hefir lund til að sitja lengi við að sverfa og fága. En þegar er þýðingar hans eru bornar saman við frumritin, verður snildarinnar vart svo að segja í hverri línu og hún bætir upp nákvæmni-skortinn. Nákvæmar þýðingar, sem leystar eru af hendi af stökustu vandvirkni, eru oft eins og dauð og ilmlaus blóm, sem lítinn unað vekja. Einstöku slíkar þýðingar eigum vér. En Matthíasi hefir ávalt tekist að varðveita ilminn og um elið unaðinn, og það er aðal-atriðið.

Eigi má gleyma sálmum síra Matthíasar. Hann var einn í sálmabókarnefndinni 1878 og mun eiga 26 sálma í sálmabókinni, sem út kom 1886, 17 frumsamda og 9 þýdda. Flestum smekkvísum mönnum á sálmakveðskap kemur víst saman um, að eins og síra Matthías hefir náð hæstum tónum í ljóðum um almenn efni, hafi hann náð hærri nótum í sálmum sínum en önnur íslenzk sálmaskáld. Að benda á einstaka sálma er óþarft. Eg nefni að eins „Ó, maður hvar er hlífðarskjól“. Og eitt er víst um sálma hans, og

það er, að þeir firnast seinna en flestir sálmar aðrir. Hann lætur sér þar einmitt hepnast svo ljómandi vel að draga fram hið almenna, koma fram með þær hugsanirnar, sem heyra öllum öldum til og ávalt finna jafn-hátt bergmál i sálum manna, en forðast að troða sálma sína fulla af trúfræði, sem ávalt er meira og minna tímabundin, og farin er að setja ellimörk á svo margan ágætan sálm eftir aðra höfunda.

Oft er talað um eftirmæli Matthíasar sem hið einkennilegasta í skáldskap hans og er það sjálfsagt að mörgu leyti rétt. Trúarhitinn, sem hann geymir í brjósti sér og hann hefir öðlast að vöggugjöf, hinn frjálsmannlegi skilningur hans á tilverunni, bjartsýnið, sem breiðir sig yfir alla ljóðagerð hans eins og dýrlegt sólskin, fær hvergi betur að njóta sín en þegar er hann horfir af grafarbarminum yfir í aðra tilveru eftir einhverjum horfnum samferðamanni. Enda þurfum vér aldrei eins á öllu þessu að halda eins og einmitt þá. En á hinn bóginn má gera mikils til of mikið af að hefja ágæti eftirmælanna langt yfir annað í ljóðum hans, því það hverfir skilningi manna á skáldgáfu hans. Það má með engu móti gera skáldið okkar góða eins langan í andliti og útfararstjóra. Það hefir hann aldrei verið og verður aldrei. Hann hefir verið einn allra-mesti gleðimaður þessarar kynslóðar með þjóð vorri. Glaðværðin, leikurinn, kátínan hefir ávalt orðið honum samferða, þótt hann kunni líka svipbrigði alvörunnar, þegar harmar og söknuður er á ferðum. Þau einkennin, sem gera eftirmælin ágæt, eru eiginlega sömu ummerkin og öll ljóð hans hafa, þar sem hann sýnir innra mann sinn bezt.

Eigi má ganga fram hjá þeim Matthíasi, sem stöðugt hefir verið að rita í blöðin, því mig grunar að áhrif hans á hugsunarhátt þjóðar vorrar gegn um blaðagreinar sé öllu meiri en menn hafa gert sér í hugarlund. Hann var ritstjóri Þjóðólfs í fimm ár (1875—80) og ritstjóri Lýðs í tvö ár. Auk þess hefir hann síðan 1860 verið sí-ritandi blaðagreinar, sem hann hefir skift á milli blaðanna örlátri hendi. Eitthvað gott hefir hann kunnað að segja hverju sinni, annaðhvort um bókmentir eða trúmál. Langoftast hefir henn verið að færa fréttir af einhverju, sem hann hefir veitt eftirtekt erlendis. Hann hefir verið fyrirtaks dugnaðarmaður í öllu, en ekki sízt í því að lesa. Hann fylgdist lengi vel betur með í því, sem hugsað var og ritað erlendis, ekki sízt á Englandi, en nokkur annar Íslendingur. Nú eru margir þar orðnir sporgöngumenn hans sem betur fer. Á þessum blaðagreinum hefir það bezt sézt, hve dásamlega vel andi skáldsins hefir verið vakandi. Hann hefir verið einn allra helzti milliliður milli andlegs lífs á ættjörðu vorri og hins andlega lífs úti í heiminum. Um það bera þýðingar hans vott. En blaðagreinar hans bera þess ekki síður ljósan vott. Hann hefir staðið á verði, borið hönd fyrir augu, horft yzt út í sjóndeildarhringinn, til þess að sjá dagrenningu hugsjónanna með öðrum þjóðum, eigi að eins til að leita sjálfum sér fagnaðar, heldur til þess að hafa einhvern ljósboðskap að flytja þjóð vorri. Þegar snemma á árum (1874) komst hann í kynni við England, enska menningu og enskar hugmyndir í sambandi við bókmentir og trúmál. Áhrifin af þeirri viðkynningu hafa

aldrei yfirgefið hann, en haldist við og verið sí og æ endurnýjuð. Fyrstur allra núlifandi Íslendinga — það ætla eg óhætt að segja — kom hann auga á það framstreymi nýrra og frjósamra trúarhugmynda í sambandi við kristindóminn og breiddi faðminn út á móti því, sem nú er orðið að flóðöldu svo stórri, að hún laugar löndin, og hefir einnig náð til vor. Fyrir þrjátíu til tuttugu og fimm árum var síra Matthías að tala um þá nýju guðfræði, sem nú er uppi á tening. Aldrei hefir það betur komið í ljós, hve óumræðílega skygn andi skáldsins er en einmitt í þessu sambandi. Síra Matthías var þarna einn aldarfjórðung á undan samlöndum sínum. Með blaðagreinum sínum hefir hann verið að undirbúa og þoka skilningnum áfram. Þótti hann þá ósjaldan nokkuð laus á kostum, eins og oftast er með þá, er eitthvað stíga út af alfaravegum. Honum hefir verið brugðið bæði um eitt og annað,og við og við kann hann að hafa gefið tilefni til að honum væri skipað í flokk, þar sem hann í raun og veru á ekki heima. Þrátt fyrir allar byltingar sem orðið hafa í huga hans í trúarefnum mun hann eiga þjóð vorri, eða öllum þeim þorra hennar, sem gædd, ur er nokkurri verulegri trúrœkni, fulla samleið í því, að vilja ekki láta dýrð Krists dvína í huga sér, hvað sem guðfræðinni líður, og bænarandann eigi víkja frá sér.

Kristindómur síra Matthíasar er frjálslyndur kristindómur. Og það að þjóð vor hefir tekið slíku ástfóstri við manninn og skáldið, er einmitt vegna þess, að hún hefir í honum þózt finna einn sannasta túlk þeirrar lífsskoðunar, sem hún sjálf ber í brjósti.

Hún hefir borið eftirlætisskáldið sitt á höndum sér eftir megni. Nú er tekið að hrósa síra Matthíasi áttræðum jafnvel fyrir trú hans, einmitt af þeim, sem stórhneykslaðir hafa orðið af hverri blaðagrein, sem birzt hefir eftir hann. Hve það mun hlæja skáldið. Ef til vill er það fyrirheit um, hvað aðrir sem verið hafa svo hepnir eða óhepnir að hneyksla á sama hátt, megi eiga von á, ekki sízt ef þeir yrði áttræðir. En þegar trú Matthíasar er hrósað í þeim tilgangi að sýna fram á, að hann sé nú í rauninni rétt-trúaður, verður hrósið að óviti, því rétt-trúaður maður hefir síra Matthías aldrei kært sig um að vera, enda verður aldrei. Og hann hefir flestum mönnum betur komið þeim hugsunarhætti inn hjá þjóð vorri með ljóðum sínum og ritverkum öllum, að rétt-trúnaðarhrokinn sé ein allrafráleitasta hugarstefna, sem mannsandinn hefir ratað út í.

Í desember 1915.

*Friðrik J. Bergmann.*





# *NÝJA-ÍSLAND 40 ÁRA.*

Fjörutíu ár eru nú að baki síðan fyrsti hópur Íslendinga steig fæti á land við vesturströnd Winnipegvatns, og síðan hefir heitið Nýja-Island. Var það 21. október 1875, fimtudaginn síðastan í sumri, kl. 4½ síðdegis, að lent var sunnan við Víðinestangann (Willow Point), stuttan spöl fyrir sunnan, þar sem nú er þorpið Gimli. Upphaflega hafði ferðinni verið heitið norður í Sandy Bar við Íslendingafljót, en af því orðið var áliðið tímans — komið fast að vetrarnóttum — komu forvígismenn fararinnar sér saman um að láta fyrir berast á Gimli yfir veturinn, en halda norður með vorinu. Í þessum fyrsta hóp voru um 250, sem komið höfðu frá Íslandi 1873 og '74 og staðnæmst höfðu í Ontario, svo bættust og nokkrir í hópinn á leiðinni að austan, er farið höfðu til Bandaríkjanna.

Til Winnipeg kom hópur þessi 11. október, að sunnan eftir Rauðánni, og stóð þar við nokkra daga meðan verið var að kaupa matarforða og aðrar nauðsynjar til vetrarins, og að byggja ferjur þær, er fara átti á til nýlendunnar. Innkaupin voru gerð fyrir peningalán það, er Kanadastjórn veitti þessum hóp, sem nam $13,000, því allir voru innflytjendurnir ör-

eigar, eða því sem næst. Nokkuð varð eftir í Winnipeg af ungu fólki sem réðst í vist. Frá Winnipeg var haldið snemma morguns þann 17. okt., norður til Nýja-Íslands ; gekk ferðin seint, því skipin voru eigi til gangs gerð, voru það stórir kassar, sem fólk og farangur fluttist á, og látnir voru reka fyrir straumi ofan Rauðá. Kassarnir voru níu talsins, þrír og þrír festir saman. Þegar niður í árósinn kom, var allur flotinn bundinn aftan í gufubát, sem dró hann norður undir Víðinesið og gekk alt vel, að því undanskildu, að þegar norður undir nesið kom staðnændist gufubáturinn, en flatbotnarnir heldu skriðinu og rann einn þeirra á skrúfu gufubátsins og kom á hann við það stórt gat, svo vatnið skall inn, en troðið var upp í það sængurfatapokum og spert fyrir með koffortum og síðan haldið áfram.

23. október var byrjað að byggja á Gimli og unnið að af kappi, og reis þar upp stórt þorp von bráðar; áttu þau hús að verða að eins til bráðabirgða og voru bjálkahús, flest 12x16 fet á stærð, þakið flatreft með sívölum rafti og dreift yfir það heyi og leir; flest án timburgólfs, nema hvað borðstúfar voru lagðir í miðjan kofann, þar sem matreiðsluvélin átti að standa ; var borðviður sá úr kassaflotanum; var hann allur dreginn sundur og notaður til þess arna. — Sjaldan eða aldrei hafa vetrarharðindi verið öllu meiri enn einmitt þennan fyrsta vetur Íslendinga á Gimli. Lagðist vetur að snemma og fraus Winnipegvatn fyrir lok október og fór sá ís eigi fyrr enn 24. maí sumarið eftir. Voru því erviðleikarnir fyrir nýbyggjana enn meiri fyrir það. Samt er sagt að fólkið hafi verið vongott. Þegar leið á veturinn fór að stinga sér niður ýms veikindi, svo sem illkynjaður skyrbjúgur, og dóu æðimargir. Var um kent óhollri fæðu og slæmum aðbúnaði.

Nöfn þeirra manna, er voru í þessum fyrsta hóp

Íslendinga, sem til Manitoba kom, eru prentuð í söguágripi eftir Guðlaug Magnússon, með fyrirsögninni „Landnám Íslendinga í Nýja-Íslandi", í almanakinu árið 1899. Það skal tekið fram, að það var eigi hugmyndin að segja hér alla sögu Nýja-Íslands, heldur að eins með fám orðum að fylgjast með þessum fyrsta hóp Íslendinga ofan að Gimli.

Fáir eru nú eftir úr þessum fyrsta hópi, búsettir í Nýja-Islandi. Samt eru þeir nokkrir. Verður það eigi talið ótilhlýðilegt á þessum tímamótum, að þessara frumbyggja sé minst. Seint í október síðastl. fór eg því ofan til Nýja-Íslands með það í huga að heimsækja þessa fjörutíu ára frumbyggja nýlendunnar,og átti eg tal við þá alla ,utan Einars læknis Jónassonar á Gimli,sem áður hefir verið ritað um í almanakinu árið 1911, og skal hér vísað til þess. Eru því hér æfiágrip þeirra með myndum af þeim, sem þær áttu. Á því ferðalagi safnaðist mér talsverður fróðleikur í sambandi við sögu Nýja-Íslands. Meðal annars fékk eg að gjöf nokkur mjög verðmæt „dókúment" frá fyrstu árum nýlendunnar, og eru þau ágætur viðbætir við það sem áður var til. Eru þar nokkrir fundargerningar „Þingráðsins", búnaðarskýrslur frá 1877 og '78, sem sýna nöfn allra búenda, bæjanöfn og eignir, svo eru nokkrar uppskriftir af dánarbúum, embættisbréf frá „Þingráðsstjóra" og ýmsar aðrar opinberar skýrslur og fundargerningar, og fl. Gáfu mér þetta þeir Jóhann Briem á Grund og Jóhannes Magnússon á Dögurðarnesi og kann eg þeim beztu þakkir fyrir. Í þessu sambandi vil eg vekja máls á því við þá, sem kunna að eiga einhver slík skjöl frá „sjálfstjórnar-tímabili" Nýja-Íslands, að selja mér þau eða gefa. Það er áríðandi að þeim plöggum sé haldið vísum, svo hægt verði að hafa hliðsjón af þeim, þegar saga Nýja-Íslands verður rituð í fullkominni mynd, sem áformið er að verði gert, áður langt um

líður, ásamt sögu Vestur-Íslendinga í einni heild. Nýja-Ísland er söguríkasta héraðið; þar hófst saga íslenzku landnemanna og þar að líkindum endar hún. Er hér átt við, að í Nýja-Íslandi haldist íslenzk tunga lengur enn annars staðar, þar sem Íslendingar eru hér í landi. Annars má því bætt hér við, að tákn tímanna eru þau, til mikilla rauna, að íslenzk tunga er hér að fjara út með eldra fólkinu, sem nú fellur frá í stór-hópum með hverju árinu sem líður, það fólkið, sem fullorðið fluttist hingað og haldið hefir málinu uppi. Yngri kynslóðin, gefur litlar gætur íslenzkunni, nema í sárfáum undantekningum. Og mörgum mun það ljóst, að ekki er nema um stutt tímabil að ræða, að sumar íslenzku bygðirnar hverfi sem íslenzkar bygðir, — að þar verði hætt að tala íslenzkt mál. Móti þessu verður ekki spornað, hér er náttúrulögmálið allri góðri viðleitni langt um sterkara. Ef innflutningur frá Íslandi jykist að stórum mun, mundi það tefja fyrir þessu um stund, en til þess eru lítil líkindi, og naumast óskandi að verði.

---

Samsæti veglegt og mikið héldu Ný-Íslendingar herra Sigtryggi Jónassyni og konu hans, í hinu stóra samkomuhúsi við Íslendingafljót, 2. nóvember, í tilefni af 40 ára afmæli nýlendunnar Var þar samankomið margt fólk úr bygðinni og annars staðar frá. (Frú Rannveig Jónasson var þar eigi viðstödd, sökum lasleika). Var heiðursgestunum flutt þakklætisávarp frá nýlendubúum, fyrir mikið og heillavænlegt starf fyrir Nýja-Ísland og var Sigtryggi þar að auki gefinn gullbúinn göngustafur.

---

Annað bæjarstæðið, þegar fyrst var komið til Nýja-Íslands, var *Sandy Bar* (Sandvík) við Íslend-

ingafljót. Þar bjó Björn heit. Pétursson, trúboði Únitara, fyrst eftir að hann kom til þessa lands, og nefndi bæ sinn Ásgarð. Við Sandy Bar dóu margir Íslendingar úr bólunni og fjöldi Indíána, sem þá var þar mikið af. Eru því margar raunasögur bundnar við Sandy Bar og líka margar kýmnissögur, því oft var þar glatt á hjalla með fiskimönnum, því fiskiver var þar fyrst á árum.—Áður fyrri þegar talað var um Sandy Bar, innifólst oft Breiðuvíkin líka.



Hér er þá sýnd mynd af Sandy Bar og birt gullfallegt kvæði, eftir skáld þeirra Ný-Íslendinganna Guttorm, son Jóns Guttormssonar frá Arnheiðarstöðum í Fjótsdal í N.-Múlasýslu.

*Útgefandinn.*



## *SANDY BAR.*

Það var seint á sumarkveldi
Sundrað loft af gný og eldi
Regn í stypistraumum feldi,
Stöðuvatn var hvert mitt far.
Gekk eg hægt í hlé við jaðar
Hvítrar espitrjáaraðar,
Kom eg loks að lágum tjaldstað
Landnámsmanna á Sandy Bar
Tjaldstað hinna löngu liðnu
Landnámsmanna á Sandy Bar.

Þögnin felur þeirra heiti,
Þeir eru lagðir hér í bleyti.
Flæddi þá um laut og leiti
Lands, við norðan skýjafar,
Andi dauðans yfir straumi
Elfar sveif í hverjum draumi,
Var þá sem hans vængjaskuggi
Vofði yfir Sandy Bar,
Skuggabik hans fálkafjaðra
félli yfir Sandy Bar.

Það er hraustum heilsubrestur:
Hugboð um að verði gestur
Kallið handan, höndum frestur
Hlotnist ei, að smíða far,

Þá til ferðar yfir álinn
Er ei reiðubúin sálin, —
Og á nálaroddum voru
Iljar manna á Sandy Bar,
Voru á nálum óljóss ótta
Allir menn á Sandy Bar.

Að mér sóttu þeirra þrautir,
þar um espihól og lautir
Fann eg enda brendar brautir,
Beðið hafði dauðinn þar.
Þegar elding loftið lýsti
Leiðið margt eg sá er hýsti
Landnámsmanns og landnámskonu
Lík — í jörð á Sandy Bar.
Menn, sem lífið launað engu,
Létu fyrr á Sandy Bar.

Heimanfarar fyrri tíða
Fluttust hingað til að líða,
Sigurlaust að lifa, stríða,
Leggja í sölur heilsufar,
Falla, en þrá að því að stefna
Þetta heit að fullu efna :
Meginbraut að marki ryðja
Merkta út frá Sandy Bar,
Braut til sigurs rakleitt, rétta
Ryðja út frá Sandy Bar.

Eg varð eins og álft í sárum,
Og mér þótti verða' að tárum

Regn af algeims augnahárum—
Ofan þaðan grátið var,
Reiðarslögin lundinn lustu,
Lauftrén öll hin hæstu brustu
Sem þar væru vonir dauðra
Veg að ryðja' á Sandy Bar,
Ryðja leiðir lífi og heiðri
Landnemanna á Sandy Bar.

Vonir dána mikilmagnans
Mega færa áfram vagn hans,
Verða' að liði, vera gagn hans,
Vísa mörgum í hans far.
Rætast þær í heilum huga
Hvers eins manns er vildi duga
Og nú kendur er við landnám,
Alt í kringum Sandy Bar,
Hefir lagt sér leið að marki
Landnemanna á Sandy Bar.

Hafin verk og hálfnuð talin
Helgast þeim sem féllu í valinn.
—Grasnál upp með oddinn kallinn
Óx, ef henni leyft það var,
En þess merki í broddi bar hún
Bitru frosti stýfð, að var hún.
Mér fanst græna grasið kalið
Gróa kringum Sandy Bar
Grasið kalið ilma, anga
Alt, í kringum Sandy Bar.

Eg fann yl í öllum taugum
Og mér birti fyrir augum ;
Vafurloga lagði af haugum
Landnámsmanna, nærri þar.
Gullið var, sem grófst þar með þeim,
Gildir vöðvar—afl var léð þeim—,
Þeirra alt, sem aldrei getur
Orku neytt á Sandy Bar.
Það sem ekki áfram heldur
Er í gröf á Sandy Bar.

Stytti upp, og himinn heiður
Hvelfdist stirndur, meginbreiður
Eins og vegur valinn greiður,
Var í lofti sunnanfar.
Rofinn eldibrandi bakki
Beint í norður var á flakki,
Stjörnubjartur heiður himinn
Hvelfdist yfir Sandy Bar,
Himinn, landnám landnemanna,
Ljómaði yfir Sandy Bar.

*Gutt. J Guttormsson.*



# FJÖRUTÍU-ÁRA BÚENDUR NÝJA-ÍSLANDS.

## JÓNAS JÓNASSON

er fæddur 28 desember 1849 á Bakka í Öxnadal í Eyjafjarðarsýslu, sonur Jónasar Sigurðssonar og Helgu Egilsdóttur, er þar bjuggu. Jónas er bróðir kapteins Sigtryggs Jónassonar, sem öllum er kunnur. Í föðurgarði dvaldi Jónas að mestu, þar til hann 21 árs gamall, réðst





til Björns Jónssonar ritstjóra "Norðanfara" á Akureyri, til að læra prentiðn og var hjá honum um 3 ár. Árið 1873 kvæntist Jónas, Helgu Hallgrímsdóttur Sigurðssonar, er bjó í Lögmannshlíð í Eyjafjarðarsýslu og dó þar; voru

bræður hennar, er hingað fluttust, Magnús póstur er látinn er fyrir fám árum í Pembina, Norður-Dakota og Sigurbjörn bóndi í Árnesbygð í Nýja Íslandi. Árinu eftir 1874 fluttust þau hjón vestur um haf, dvöldu um eitt ár í Ontario, og fylgdust síðan með í fyrsta hópnum vestur til Manitoba 1875. Eins og flestir í þeim hóp dvöldu þau fyrsta veturinn á Gimli og síðan eitthvað í Mikley og námu svo land við Íslendingafljót og nefndu bújörð sína Bjarkalón og hafa búið þar síðan.

Jónas er fyrsti prentari, sem fluttist frá Íslandi vestur og mun það hafa átt sinn þátt í stofnun prentsmiðjunnar við Íslendingafljót og útkomu "Framfara" á öðru frumbýlingsári nýlendunnar, að til var þar prentari. Jónas veitti prentsmiðjunni forstöðu meðan hún var við fljótið, prentaði "Framfara" og annað, er þar var prentað.

Þau Jónas og Helga eru myndar hjón í sjón og reynd. Svipar Jónasi mjög til bróður síns Sigtryggs, er hann stór maður vexti og karlmannlegur, skysamur vel og hress í viðræðu, og verið fjörmaður mikill á yngri árum. Setið hefir hann í forstöðunefnd skóla-héraðsins í ellefu ár og verið talsvert riðinn við safnaðarmál. Engin börn hafa þau hjón átt, en alið upp fósturbarn.

---

## *JÓSEF SCHRAM*

er fæddur á Höfða á Höfðaströnd í Skagafirði 6. marz 1844. Hét faðir hans Jóhann Kristján, sonur Jóhanns Kristjáns Gynter Schram, kaupmanns á Hólanesi, danskur að ættum. En móðir Jósefs var Ragnheiður, dóttir séra Páls Erlendssonar á Brúarlandi í Deildardal í Skagafjarðarsýslu og konu hans Elínar, dóttur Halldórs Vídalíns klausturhaldara á Reynistað. Jóhann Kristján, faðir Jósefs, var annálaður fyrir fimleik og karlmensku. Var hann sá, er rak járnboltana í bergið til uppgöngu á drang þann, er Kerling kallast, sunnan við Drangey á Skagafirði, sem þótti hið mesta snarræði. Drangur sá mun um 600 feta hár frá sjó. Er frá því sagt, að þegar Jóhann hafi

verið búinn að læsa sig upp eftir bjarginu upp á kollinn, hafi hann haft endaskifti á sjálfum sér og staðið á höfði þar uppi. Jóhann druknaði á skipi er haldið var úti í hákarl af Skagafirði um páskaleytið 1845. Var þá Jósef á 1. ári. Með móður sinni var hann á Höfða þar til hann var 6 ára, að hann fór með henni að Skriðulandi í Kolbeinsdal. Var móðir hans þá gift í annað sinn Jóhanni





Hallssyni Ásgrímssonar, hálfbróður séra Jóns Hallssonar prófast í Glaumbæ (er um Jóhann ritað í þessu almanaki 1902). Á Skriðulandi bjuggu þau þar til 1857 að skriða féll á bæinn og sópaði burt og eyðilagði allan fjárstofn, að undanteknum kúnum. Færðu þau sig þá að Traðarholti í Hjaltadal og voru þar á vegum Bendikts prófasts Jónssonar á Hólum, því skriðan fór með allar eigurnar. Fór þá Jósef sem léttadrengur að Neðra-Ási og var þar til þess móðir hans og stjúpfaðir fluttust að Þorleifsstöðum í Blönduhlíð, að hann var með þeim þar

og síðan að Egg í Hegranesi. Og þaðan fór hann vestur um haf 1874 og varð honum samferða hálfsystir hans Ragnheiður Halldóra, er síðar giftist Gísla Egilssyni, frá Skarðsá í Sagafirði, og nú búa í Lögbergsnýlendu. Fóru þau systkini af Sauðárkróki 7. september með gufuskipinu Patrick, sem það ár flutti vesturfara frá Íslandi beint til Quebec. Eitt ár voru þau í Ontario og fóru síðan í fyrsta hópnum, vestur til Manitoba alla leið til Gimli.

Kvæntur er Jósef Kristínu Jónasdóttur frá Harastöðum í Haukadal, systur Einars Jónassonar, hins góðkunna læknis, er nú á heima á Gimli og oft hefir verið minst í þessu almanaki. Séra Jón Bjarnason gaf þau saman í hjónaband 19. júlí, 1877, ásamt þrem öðrum hjónaefnum í húsi Friðjóns Friðrikssonar á Gimli. (Hin hjónaefnin voru: Árni Sveinsson og Guðrún Helga Jónsdóttir; Jón Jónsson, frá Munkaþverá og Guðný; Gísli Egilsson og Ragnheiður Halldóra; er þeirra áður getið).

Eftir tvö og hálft ár tóku þau sig upp og fluttu til Norður-Dakota. Hafði Jóhann Hallson, stjúpfaðir hans, þá fyrir nokkru (1878) numið land, þar sem heitir að Hallson og fýsti Jósef að fara á eftir. Lagði hann á stað frá Gimli fótgangandi í fylgd með tveim öðrum og ráku sextán nautgripi. Þar af átti Jósef tvær kýr, sem var aleigan. Þegar suður til Pembina kom, varð að láta tollþjóna vita um ferð þeirra. Enga peninga höfðu ferðamennirnir til að lúka með tollinn. Segir Jósef svo frá að hann hafi þá tekið til bragðs, að reka í rétt skamt fyrir norðan bæinn helming af tölu gripanna, en farið með hinn helminginn til bæjar í þeirri von að þeir mundu fremur sleppa í gegn með svo fátt án þess að borga toll, en það brást og var önnur kýr hans tekin í tollgjaldið. Taldi hann sig samt heppinn að hafa tekið þetta ráð því annars hefði hann enga kúna haft til að byrja með búskapinn þar syðra. Nam hann land við Tungá, eigi all-langt frá stjúpföður sínum. Eftir að þangað kom, fór hann að byggja kofa yfir þau og vinna önnur nauðsynjaverk. Lagði svo af stað seinni part sumars gangandi á annað hundrað mílur að leita atvinnu. Fékk vinnu við þresking um tvo mánuði fyrir $1.00 á dag. Sneri að þeim

tíma liðnum heim aftur með kú í taumi, sem hann galt fyrir sextán dali. Er frá þessu sagt, til þess að gefa lítið sýnishorn af þeim erfiðleikum sem íslenzku frumbýlingarnir áttu við að stríða í gamla daga.

Nítján ár bjuggu þau hjón við Tungá. Fluttu þá til Nýja Íslands aftur (í júní 1901) og námu land í Geysisbygð og hafa búið þar síðan. Ellefu börn hafa þau eignast, af þeim fimm dætur á lífi: Valgerður, gift Jóni Nordal Jóhanna, gift Jóhannesi Nordal og Elín, gift Guðmundi Einarssyni; allir hafa þeir bú þar í bygðinni. Tvær dætur eru ógiftar í föður-garði, Þóra Margrét og Ástríður. Eru gömlu hjónin mestu myndarhjón, og líður vel efnalega. Hann 72 ára og hún 65, og er auðséð á þeim að þau hafa eigi farið varhluta af þeirri þrautseigju, er verið hefir svo stakt einkenni gömlu landnemanna. Var Jósef mesti elju og frískleika maður meðan lífið lék við hann, en þessi síðari árin hefir gigtin leikið hann illa, svo vart getur hann nú borist um. Bæði eru þau einkar glaðvær og skemtin heim að sækja og er þeim nú fátt hugðnæmara enn að ryfja upp gamlar endurminningar með þeim sem að garði bera.

---

## *SIGURÐUR SIGURBJÖRNSSON*

er fæddur 18. október 1852, á Núpi í Axarfirði. Var faðir hans Sigurbjörn Friðriksson, Árnasonar, Sigurðssonar, en móðir Þórunn Steinsdóttir frá Harðbak á Melrakkasléttu. Sigurður ólst upp á Valþjófsstöðum í Presthólahrepp og Sjóarlandi í Svalbarðshrepp í Norður Þingeyjarsýslu og þaðan fór hann hingað vestur 1874 ásamt móður sinni og bróður, er Friðrik hét* (dáin í Winnipeg 1879).

---

*) Má í þessu sambandi segja frá því, að haft er það fyrir satt, að Friðrik þessi og Sigríður Jónsdóttir frá Litlu-Strönd við Mývatn hafi verið fyrstu hjónaefni íslenzk, sem gefin voru saman í Winnipeg. Man sá er þetta ritar, að segja frá því, að tilhugalíf þeirra hófst á Akureyri,

Eftir eins árs dvöl í Ontario fór Sigurður í fyrsta hópnum til Nýja-Íslands og var þar fjögur fyrstu árin. Hvarf svo til Winnipeg og var tvö ár í þjónustu Hudsons-flóa félagsins. Árið 1879 gekk hann að eiga Snjólaugu dóttir Jóhannesar Brandssonar (frá Krossum á Árskógsströnd) og konu hans Sigurlaugar Þorkelsdóttur, er bjuggu á Kleif í Þorvaldsdal í Eyjafjarðarsýslu.





Árið 1882 fluttu þau ofan til Nýja-Íslands og námu

---

meðan beðið var eftir vesturfara-skipinu, sem það árið, eins og oftar, varð löng bið eftir. Eru tvö börn þeirra á lífi, Friðrika, kona Halldórs Þórólfssonar, trésmiðs hér í borg og Frank, skóverzlunarmaður, suður í Bandaríkjum. Látin er Sigríður fyrir nokkrum árum síðan. Varð síðari maður hennar, Sigurður Davíðsson, málari, er heima á hér nálægt Winnipeg.

land í Árnes-bygð og nefndu bújörð sína Tungu og hafa búið þar síðan.

Sigurður hefir staðið framarlega í málum bygðar sinnar frá því fyrsta. Í sveitastjórn Gimlisveitar sat hann um mörg ár og líka í skólanefnd og póstafgreiðslumaður síðan pósthúsið var sett á stofn á þeim stöðvum. Síðustu 10—12 árin hefir hann rekið verzlun í félagi við tengdason sinn Björn Sveinsson Magnússonar, bónda þar í bygðinni og stendur verzlunarhús þeirra nú við járnbrautarstöðvarnar í Árnesi. Snjólaug kona Sigurðar er myndarkona hin mesta og allvel skýr; verður hún sjötug á næsta vori. Hafa þau hjón komið á fót fimm mannvænlegum börnum, sem öll eru búsett í Nýja Íslandi:

**Sigurjón**, kaupmaður í Árborg, giftur Jónu Vopni, systur Jóns J. Vopna í Winnipeg og þeirra systkina.

**Friðrika** gift Antoníusi Guðmundssyni.

**Friðjón**, giftur Jóhönnu Guðmundsdóttir.

**Kristjana**, gift Birni Magnússyni, sem áður er getið.

**Sigurbjörn**, kaupmaður í Riverton, giftur Kristbjörgu, systur konu Sigurjóns bróður hans í Árborg.

## *SIGURBJÖRN HALLGRÍMSSON*



er fæddur á Brekku í Kaupangssveit í Eyjafirði 1841, sonur Hallgríms Sigurðssonar og Guðrúnar Þorsteinsdóttur, er þar bjuggu þá, og síðar í Lögmannshlíð í Glæsibæjarhrepp. Er hann bróðir Helgu konu Jónasar Jónassonar, prentara, sem fyrstur er hér talinn af 40 ára búendum Nýja-Íslands. Kona Sigurbjörns heitir Anna Sigfúsdóttir, ættuð úr Svarfaðardal. Voru þau gefin saman í hjónaband, miðvikudaginn í 23. viku sumars 1865, og hafa því, 27. sept. síðastl., verið saman í hjónabandi full fimtíu árin. Á Íslandi bjuggu þau síðast á Hesjuvöllum í Kræklingahlíð og þaðan réðust þau til vesturferðar 1873, en vegna þrengsla á útflutningsskipinu, sem það ár kom til Akureyrar, voru þau ásamt fleirum sett aftur. En fóru svo árið eftir, 1874. Að Gimli lentu þau 21. október, 1875 með fyrsta hópnum. Voru þau eitt ár við Íslendingafljót, en námu svo land í Árnesbygðinni og kölluðu Flatatungu, og hafa búið þar síðan.

Sjö börn hafa þau eignast, en lifa aðeins þrjár dætur: Kristín, kona Jóhannesar Magnússonar í Dögurðarnesi. Guðrún Helga, gift Andrési Árnasyni, Andréssonar (frá Bægisá), bónda við Poplar Park í Manitoba, og Hallgríma Friðrika, ógefin í föðurgarði.

Það er næsta eftirtektavert, hvað fólk hefir enzt vel, sem búið hefir þarna í frumskógunum í Nýja-Íslandi, og

er orsökin án vafa heilnæmi loftsins, sem þar er í svo ríkum mæli, með vatnið á aðra hönd og jurtalíf skógarins á hina. Þessi öldruðu heiðurshjón sem búin eru að strita og stríða þarna í Flatatungu meir enn þriðjung úr öld, sýnast geta bætt við sig 25 árum enn, svo vel hafa þau haldið sér, eins og myndin af þeim sýnir, sem hér er sýnd og mun tekin af þeim í kringum fimtíu ára hjónabandsafmæli þeirra. Er það dóttir þeirra, sem heima er, sem að baki þeirra stendur. Er Sigurbjörn 74 ára og konan litlu yngri.

---

## *JÓHANNES MAGNÚSSON*



er fæddur í Arnarbæli á Fellsströnd í Dalasýslu 10. ap. 1852. Foreldrar hans voru Magnús, Magnússon, Ólafssonar, Hallssonar, og Guðrún Jónsdóttir, og allan sinn búskap áttu heima í Arnarbæli. Þegar Jóhannes var 6 ára, misti hann foreldra sína og réðst þá til fósturs hjá Jóhannesi Bæringssyni á Breiðabólstað á Fellsströndinni og þar dvaldi Jóhannes þar til 1872, að hann fór til Stykkishólms og þaðan tveim árum liðnum, 1874, til Vesturheims. Í Ontario var Jóhannes fyrsta árið hér í landinu og síðan fluttist hann til Nýja Íslands 1875 og tók heimilisrétt á landi í Árnesbygðinni um leið og það var fáanlegt. Bygði hús á landi sínu í janúar 1876 og nefndi bújörð sína Dögurðarnes og hefir aldrei þaðan farið.

Jóhannes er tvígiftur, hét fyrri konan Kristín Jóhannesdóttir, Bæringssonar, sem áður er nefndur og lézt hún eftir stutta sambúð. Í annað sinn, 9. júní 1885, gekk hann að eiga Kristínu, dóttur Sigurbjörns Hallgrímssonar og Önnu Sigfúsdóttur í Flatatungu. Eina dóttur á hann eftir fyrra hjónaband, Kristínu að nafni, gift hérlendum manni, George Zebre, búsett í Bandaríkjum. Með síðari konu sinni hefir hann átt 16 börn og lifa 13 af þeim. Eru þrjár dætur giftar: Anna kona Sigurpálma Jóhannssonar á Bólstað í Víðirnesbygð; Guðrún, gift Ásm. Goodmanson við Poplar Park, og Sigurbjörg, gift Albert Berry Robertson við Ashern, Man. Í föðurgarði eru 3 dætur ungar og 8 synir, sérlega mannvænlegur hópur.

Jóhannes Magnússon hefir verið einn með helztu forvígismönnum þar í héraði síðan Nýja-Ísland bygðist. Var hann einn af fimm, sem kosinn var fyrsta veturinn í "bæjarnefndina" á Gimli, til að veita málum manna forstöðu; hinir voru Ólafur Ólafsson (frá Espihóli) Friðjón Friðriksson, Jakob Jónsson (frá Munkaþverá) og John Taylor. Svo var hann bygðarstjóri 2—3 árin síðustu, sem nýlenduráðið var við líði og Íslendingar réðu sjálfir sínum sérmálum. Eftir að sveitin var löggilt var Jóhannes tíu ár oddviti Gimli-sveitar og í sjö ár skrifari og féhirðir sveitarinnar og er mælt að hann hafi leyst þau störf prýðilega af hendi, enda skortir hann eigi hæfileikann til þess, því hann er skynsamur maður í betra lagi og vel að sér um margt, skemtinn í viðtali og fyndinn; skrifar ágæta rithönd meðal annars. Hann er fremur stór maður vexti og sópar heilmikið að honum og ekki ólíkur í sjón og maður getur hugsað sér að verið hefðu íslenzku goðarnir í gamla daga. Eftirsjá er að því, að eigi var til ljósmynd af Kristínu konu Jóhannesar, svo mynd af henni hefði orðið birt hér við hlið bónda hennar. Sagði hún mér, að hún hefði aldrei fengist til að koma nálægt ljósmyndavél og því væri engin mynd til. Er hún kona vel gefin og mun óvíða finnast jafn myndarleg og hraustleg sextán barna móðir, sem húsfreyjan á Döguðarnesi.

# *GUÐLAUGUR MAGNÚSSON*



er fæddur 21. nóvember 1848, er hann bróðir Jóhannesar, sem áður er hér sagt frá. Eftir að hann misti foreldra sína, ólst hann upp hjá móðursystur sinni, Kristínu Jónsdóttur og manni hennar, Eiríki Jónssyni, er bjuggu á Hafurstöðum á Fellsströnd, og hjá þeim var hann þar til 1874, að hann fór vestur um haf í fylgd með bróður sínum, Jóhannesi og hafa þeir orðið samferða síðan. Nam Guðlaugur land við hlið bróður síns og létu sama nafnið ná yfir báðar jarðirnar, er Guðlaugs fyrir sunnan þjóðveginn en Jóhannesar fyrir norðan; má segja að "vellirnir liggi saman", eins og sagt var heima á Íslandi. Póstafgreiðslu hefir Guðlaugur haft á heimili sínu um 13 ár og nefnir pósthúsið Nes; þótti honum Dögurðarnes of langt og tók því síðasta atkvæðið, var og hræddur um að **Dögurðar** mundi eigi njóta sín í enskum munni. Meðráðamaður í sveitarstjórn Gimlisveitar var hann framan af eftir að nýlendan fékk sveitar-réttindi.

Guðlaugur Magnússon giftist 12. apríl 1898, Henriettu Vilhelmínu Clausen, þá bæði til heimilis á Gimli. Foreldrar hennar voru þau hjónin Marteinn Clausen í Keflavík í Gullbringusýslu og Þorgerður Gunnlaugsdóttir, ættuð af Vatnsleysuströnd í sömu sýslu. Fyrri maður Henriettu var Sveinn Guðbjartson Friðrikssonar, ættaður

úr Ísafjarðarsýslu. Þau fimm ár, sem hann lifði hér í landi, átti hann heima á Mountain, N. Dak. Þau eignuðust tvo sonu, Martein Friðrik og Karl Victor, sem nú eru báðir uppkomnir menn.

Guðlaugur mun góð sex fet á hæð og hinn karlmannlegasti til burða; hann er einn þessara sjálfmentuðu fræðimanna, einkar gætinn og spakur í tali, og hinn vandaðasti í öllu dagfari. Má hér tilfæra tvö lýsingarorð, sem dr. Jón heitinn Bjarnason viðhafði um Guðlaug, að hann væri “valinkunnur fræðimaður.” Hér áður fyrr skrifaði Guðlaugur í Lögberg, ýmist undir sínu eigin nafni eða gerfinafninu “Ný-Íslendingur,” var hann þá að halda uppi vörn fyrir Nýja-Ísland, gegn árásum ýmsra í Heimskringlu á nýlenduna. Hélt hann því fram að nýlendan ætti mikla og góða framtíð fyrir hendi og er það nú að rætast. Í almanaki þessu fyrir árið 1899 skrifaði Guðlaugur um “Landnám Íslendinga í Nýja Íslandi.” Er það ágrip vel og vandlega af hendi leyst og það eina ábyggilega af sögu Nýja-Íslands, sem ritað hefir verið til þessa.

---

## *JÓHANN V. JÓNSSON*

fæddur 1852 á Jódísarstöðum á Staðarbygð í Eyjafirði. Voru foreldrar hans Jón Jóhannesson og Bergþóra Sigurðardóttir Randverssonar frá Leyningi í Eyjafirði fram. Kona Jóhanns heitir Sigríður Ólafsdóttir, smiðs frá Gilsá í sömu sveit. Foreldrar Jóhanns bjuggu lengi á Torfufelli í Eyjafirði, en fluttu þaðan að Nýjabæ í Austurdal í Skagafirði og þaðan tóku þau sig upp og fluttust til Vesturheims 1874. Fylgdist Jóhann með þeim og var þá kvæntur Sigríði, sem áður er getið. Í Ontario dvöldu þau fyrsta árið og fóru þaðan að Gimli haustinu eftir. Jóhann nam land tvær mílur suður af Gimli og nefndi að Bólstað og bjó þar um tuttugu ár; tók síðan annað land vestar í bygðinni og býr þar nú og kallar Breiðabólstað. Sjö börn eignuðust þau, en lifa þrjú, ein dóttir og tveir synir:

Jón Ólafur, kvæntur Oddfríði Sveinsdóttur og býr á Bólstað. María gift Sigurði Einarssyni og Sigurpálmi, kvæntur Önnu Jóhannesdóttur frá Dögurðarnesi.

Elzti sonur þeirra Jóhanns og Sigríðar, Jón Ólafur, mun fyrsti Íslendingur fæddur í Nýja-Íslandi—mátti heita að hann fæddist þar í fjöruborðinu eftir að á land var stígið. Var um móðurina búið í tjaldi úr vísunda húðum, og hlynt að eftir föngum. Sagði konan mér að frosið hefði þó í kringum sig í tjaldinu og fent inn á fletið. Fáum dögum eftir að á land kom, lagðist að vetur með hríðar og hörkur og lagði þá Winnipegvatn fyrir lok október, sem það aldrei hefir gert síðan.

Þreytuleg komu þessi hjón mér fyrir sjónir og báru andlitin vott um söguna gömlu: strit, stríð og sorg, enda hafa þau eigi farið varhluta af erviðleikunum, sem frumbýlingarnir áttu og eiga enn við að etja. Það glaðnaði yfir þeim, þegar talið barst heim í Eyjafjörð og um ættingjana þar, einkum lýsti sú ánægjan sér hjá konunni, og fanst mér heimþráin vera enn heit, eins og víða verður vart, einkum hjá þeim, sem þroskaðir yfirgáfu fósturjörðina og lífið hefir eigi leikið við.

---

## *FLÓVENT JÓNSSON*

var einn í hópi þeirra fyrstu, sem til Nýja-Íslands kom; er hann fæddur á Skriðulandi í Möðruvallasókn í Eyjafirði 12. júlí, 1839. Voru foreldrar hans Jón Flóventsson og Steinunn Guðmundsdóttir er þar bjuggu allan sinn búskap og var Flóvent hjá þeim þar til þau létust í des. 1871.

Tuttugu ára gamall fór Flóvent í hákarlalegur og síðan á hverju ári eftir það, meðan hann var á Íslandi.

Vorið 1872 kvæntist Flóvent Bergrósu Jónsdóttur frá Féeggstöðum í Hörgárdal og tók Skriðuland, en árið eftir 1873 fluttust þau vestur um haf. Nam hann land við Íslendingafljót og nefndi Skriðuland og bjó þar, þar til

flóðin komu og hann varð að hrekjast burt, og fór til Selkirk. En svo fór hann afturá land sitt og bjó þar 8 ár. Árið 1893 tók hann sig upp frá Skriðulandi og fór til Íslands, staðráðinn í að setjast þar að fyrir fult og fast. Hafði hann þá mist börn sín öll, fjögur að tölu og lífið að öðru leyti orðið honum til mæðu, og hugði að fá bót þeirra meina heima á æskustöðvunum. Réði hann sig sem háseti á norskt barkskip í Halifax til Bretlands og þaðan með þýzku skipi til Borðeyrar og þaðan póstleið norður í Eyjafjörð og kom þar fyrir réttir um haustið. Settist að í Arnarnesi og stundaði sjó fram eftir vetri. Þegar kom fram á vetur greip hann óyndi svo mikið, að eigi hélst hann þar við lengur, og lagði í febrúarmánuði gangandi vestur á Dýrafjörð, með það í hug að ná þar í far til Ameríku með heilagfiski-veiðaskipi og það tókst honum og var hann með því til veiða um sumarið eftir og lenti um haustið í Gloucester, sem er fiskibær 28 mílur norðaustur af Boston. Þar var Flóvent í fimm ár við fiskiveiðar, en að þeim tíma liðnum selfærði hann sig þaðan, þar til hann komst norður að Íslendingafljóti aftur. "Þangað sækir klárinn, sem hann hefir verið mest kvalinn." Þar hefir Flóvent hafst við síðan, að undanteknum þrem árum, sem hann varði til að vinna sér inn eignarrétt á 160 ekrum í Mikley. Flóvent er vel skynsamur karl og hugþekkur, er einn þeirra manna sem farið hefir í gegnum mörg æfintýri um dagana; stendur það til að þau verði í letur færð og er hér því fljótt yfir sögu farið.

# *BENIDIKT ARASON*



er fæddur að Stóru Völlum í Bárðardal 14 otkóber 1837. Faðir hans var Ari Vigfússon bóndi að Hamri, en móðir Ara, kona Vigfúsar, var Guðrún Ásmundsdóttir Skútustöðum við Mývatn. Móðir Benidikts, kona Ara var Guðrún Árnadóttir frá Davíðssonar á Stóru Völlum í Bárðardal. Móðir Guðrúnar, kona Ásmundar, var Guðný Jónsdóttir frá Mýri í Bárðardal. Bróðir Benidikts var Skapti heitin Arason, sem lézt í Argyle 1903. Benidikt ólst upp hjá stjúpföður móður sinnar, Benidikt Indriðasyni á Stóru-Völlum til 15 ára aldurs, en fór þá til foreldra sinna að Hamri í Laxárdal og var hjá þeim meðan þau lifðu.

Haustið 1866 gekk Benidikt að eiga Sigurveigu Jónasdóttur og bjuggu þau á Hamri þangað til árið 1874 að þau fluttu hingað vestur, með gufuskipinu Patrick, er þá flutti vesturfara frá Íslandi beina leið. Voru í þeim hópi um 350 manns og voru túlkar á skipinu, þeir Frímann B. Anderson og Benidikt Einarsson, sem nú er læknir í Chicago, báðir tungumála menn miklir. Eftir að til Canada kom dvaldist Benidikt í Kinmount í Ontario, þar til í september árinu eftir að hann fór í fyrsta hóp num til Nýja-Íslands. Nam hann land átta mílur suður af Gimli og nefndi á Völlum og bjó þar um 4 ár. En eftir

að Skapti bróðir hans fluttist burtu, flutti Benidikt á jörð hans, er Skapti heitinn nefndi Kjalvík, og er nafnið dregið af því að í vík lítilli er skerst inn í landið, fanst rekinn kjölur úr litlu skipi. Í Kjalvík hefir Benidikt búið síðan farsælu búi í full 34 ár. Þau Benidikt og Sigurveig hafa eignast tíu börn og lifa sex, þrír synir og þrjár dætur; elztur bræðranna er Vigfús, síðan Tryggvi og Skapti yngstur. Af dætrunum er Sigrún elst, er hún gift Halldóri Kjernested bónda þar í bygðinni, þá Guðný, gift Guðmundi Jónssyni og búa í Glenboro, Man., og Jóna, yngst, til heimilis í Winnipeg. Bræðurnir þrír eru allir í föðurgarði, og reka búskapinn með foreldrum sínum. Tryggvi er ekkjumaður, hét kona hans Vilfríður Sveinsdóttir, er lézt eftir skamma sambúð; en hinir bræðurnir hafa eigi kvænst. Eru öll þessi börn einkar mannvænleg.

Kjalvík er í þjóðbraut og var í gamla daga margur maðurinn þar næturgestur. Áður en járnbraut var lögð inn í nýlenduna og ferðast var á tveim jafn-fljótum. eða með uxa — einn eða tvo—í fararbroddi, var oftast áð í Kjalvík, var þar seldur greiði ferðafólki, en margir komu þar líka sem ekkert höfðu að borga með, en var sýndur sami beini og hinum, og munu ekki svo fáir, er fóru þar um farinn veg með léttan malpokann, minnast ástúðar húsmóðurinnar í Kjalvík. Þau Benidikt og Sigurveig hafa búið þarna farsælu búi og stundað alt með trúleik og vandvirkni og er Benidikt orðlagður fyrir skilsemi í öllum viðskiftum. Tvö ár sat hann í sveitarstjórn Gimli sveitar og póstafgreiðslu hefur hann haft um mörg ár og heitir pósthúsið Húsavík. Hafði Sigurður Christopherson sett það á stofn og nefnt eftir bújörð sinni þar í bygðinni; tók Benidikt við því af honum og hélt nafninu. Þess skal hér getið til gamans, er Benidikt sagði mér, að hann og Sigurður Christopherson hefðu bygt fyrsta smábát, er notaður var á vatninu. Var það rétt eftir að á land var komið, að þeir fengu leyfi hjá Mr. Taylor, umboðsmanni stjórnarinnar, að mega taka við innan úr einum flatbátnum, sem komið var á frá Winnipeg. Byrjuðu þeir smíðið að morgni og rendu kænunni á flot að

kveldi; höfðu þeir ekki aðra nagla til smíðsins, enn þá er þeir drógu úr flatdallinum. Þetta sjófar var síðan notað til fiskjar með ströndinni og annars skjökts.

Hjón þessi eru nú orðin há-öldruð, hann 78 ára og hún litlu yngri, samt eru þau enn vel ern og stendur gamla konan fyrir búskapnum innan-bæjar, með dugnaði miklum; en Benidikt hefir að mestu mist sjónina og því orðið að leggja niður verk.

# Brasilíuferðir Þingeyinga.

ÁRIÐ 1902 birtist í Almanakinu ritgerð eftir Jón Borgfirðing (á Akureyri), um Brasilíu-ferðir Þingeyinga. Ritgerð sú mun vera það fyrsta er um Brasilíu-ferðirnar var ritað og að sjálfsögðu að öllu rétt, eins og annað er frá hendi þess látna fræðimans birtist á prenti. Árið sem leið, birtist ritgerð um sama efni, eftir Þórhall biskup Bjarnarson í "Morgunblaðinu", sem hann nefnir: „Frá Grœnlandi til Brasilíu". Ritgerð sú er í sumum atriðum ágæt viðbót, við það sem hér hafði áður birst, og því ástæða til að láta hana koma hér líka.

## I.

## Frá Grænlandi til Brasilíu.

Yfirskriftin svíkur ekki með það að bæði kemur fyrir Grænland og Brasilía, en ferðin á milli er blað úr sögu Suður-Þingeyinga fyrir fullum 50 árum. Eru þeir sögumenn mínir faðir minn heitinn. Tryggvi Gunnarsson og Hermann Jónasson.

Veturinn 1858—59 var einn hinn allra versti norðanlands á allri öldinni. Herman kallar veturinn "blóðvet-

ur": hafi fengið það nafn vegna almenns skurðar á Norðurlandi í vetrarlokin.

Þá voru sumarpáskar, og á laugardaginn fyrir páska er skorið í húsunum og kasað, menn vildu ekki láta féð svelta yfir hátíðina.

Eg hefi góð gögn um tíðarfar í dagbók föður míns. Allan marz og fram að páskadegi 24. apríl, er veðurlýsingin stöðugt þannig: "Iðulaus norðan stórhríð og harka" —"norðan helja og hríð"—"austan bruna gola"—"stálharka"—"jarðlaust".

Þessi sjö vikna fasta var hér á Suðurlandi kölluð "harða fasta".

Ekki finn eg nein merki þess í dagbókinni, að féð hafi verið skorið í Höfðahverfi. Tvent minnir þó á heyskortinn. Segir miðvikudaginn fyrir skírdag, er um leið var sumardagurinn fyrsti: "sótt hey að Nesi", og á laugardaginn fyrir páska: "fóru piltar 3 að ná kvisti fram í skóg".

Svo rennur upp páskadagurinn með "gott veður og sólskin", og 2. í páskum: "sólbráð— —farnir að koma upp hnjótar til fjalls".

Það kemur heim við sögu Hermanns, að féð, sem lífinu fékk að halda, hafi þá verið stutt út á börð, sem upp komu, og hafi flestalt það féð komist af. Jörðin græn undan fönninni.

Merkur veðurspámaður var þá inni í Eyjafirði, seldi hann almanök með veðurspám. Lét hann batna vel og eðlilega með vorkomunni í jafndægrum, en þá versnaði fyrst til fulls. Voru veðurspár þessar negldar á stöð í bæjardyrum í Laufási, öllum til ílits.

Nesheyið var borgað með sex hestum um sumarið. En oft heyrði eg föður minn óska þess við Einar Ásmundson, að heyfátt yrði einu sinni í Nesi, en nógu að miðla fyrir ofan ána, svo að ekki stæði upp á.

Allar bygðir norðanlands hafa borið menjar þessa voða veturs, en harðast hafa orðið úti uppsveitirnar, þar sem mest var treyst beitinni, og þar á nú sagan upptök sín.

Þingeyingar eru bókamenn, og allvíða var þar á bæjum hið velsamda rit Sigurðar Breiðfjörðs: "Frá Grænlandi". Lesa menn þar um góða landkosti. Rís nú sú alda þar um uppsveitir, að þangað sé að flýja úr vetrarfárinu íslenzka. Eru taldir helztu hvatamenn þessa ráðs, Halldór hreppstjóri á Bjarnastöðum, er mikið átti undir sér, og Bárðdælir og Mývetningar eru margir af komnir, og Jónas Hallgrímsson smiður, faðir Hermanns frá Þingeyrum. Bjó hann í Víðikeri harða vorið, og misti þá bústofn sinn og fluttist í Mývatnssveit, og var búlaus úr því, enda smiður góður.

Kom nú svo langt, að fundur var ráðinn að Einarsstöðum í Reykjadal, að ræða um Grænlandsferðina. Var nú landnámshugur mikill í mönnum, að endurreisa hina fornu Íslandsbygð á Grænlandi.

Einar í Nesi sækir fundinn. Það var fyrsta búskaparár Tryggva Gunnarssonar á Hallgilsstöðum, og gisti Einar þar í báðum leiðum. Hann var íbygginn, og lét ekkert uppi á norðurleið, en á heimleiðinni hafði hann mikið af fundinum að segja.

Einar var maður margfróður og víðlesinn, sem kunnugt er. Hann hafði þá eitthvað fengist við tungu Portúgalsmanna og um leið fengið kynni af Brasilíu. Nú kemur hann á þennan Einarsstaðafund með sögu og fróðleik um Grænland, og sýnir fundarmönnum fram á það með viti og hægð, hve fráleitt sé að flytja úr köldu landi í enn kaldara land. Og það mátti segja um komu Einars á fundinn, að hann "kom, sá og sigraði". Brasilía varð fyrirheitna landið úr því, en hætt var að hugsa um Grænland.

Einar var sjálfkjörinn forgöngumaður þessa nýja ráðs, og meðal annars var treyst á málakunnáttu hans. Segir Hermann mér, að síra Jón Austmann, prestur þeirra Bráðdæla hafi verið annar mestur forgöngumaður.

Nú kemst á Brasilíufélag í sýslunni og ganga í það um 200 manns, og er alt það fólk ráðið til farar. Um margt þurfti að spyrja og dróst í tímann. Hafa mestar þær skriftir auðvitað lent á Einari. Ráðlegast þótti að gera út mann til að kynnast staðháttum og velja ný-

lendusvæðið, var eigi síður hugsað til kvikfjárræktar, en akuryrkju. Fyrir valinu varð Jónas Hallgrímsson. Hann átti að fara sumarið 1862, en það dróst til júlímánaðar 1863, þá fer hann og 3 aðrir, frá Akureyri til Khafnar, komust þeir síðan á vegu Brasilíustjórnar-umboðsmanns í Hamborg, og lögðu þaðan út með seglskipi og höfðu langa útvist. Ári síðar reit Jónas langt og fróðlegt bréf um ferðina og það sem fyrir þá félaga bar í Brazilíu og kom bréfið í Norðanfara 1864 og 1865.

Tilskilið var það í félagskapnum þingeyska, að Brasilíustjórn sæi þeim fyrir ókeypis fari yfir hafið, væntanlega frá Hamborg. Það dróst. Ekki varð Jónasi auðið heimkomu, og lét hann þó hér eftir konu og ung börn. Hann hafði ofan af fyrir sér í Brasilíu mest með smíðum og komst af, en gat eigi aflað sér þess fjár að komast heim, er var margfalt dýrara en útferðin. Hann var eigi heilsuhraustur maður. Varð gula sóttin honum að bana um 1867.

Árið 1873 kemst það í kring að ókeypis far stendur til boða, eða vildari kostir en áður. En þá var Brasilíu félagsskapurinn farinn að dofna. Sjálfur foringinn var afhuga ferðinni, bjó svo vel í Nesi, að ekki tók að skifta, og nú voru líka að byrja vesturfarir til Canada og Bandaríkja, og munu hafa þótt fýsilegri. Í fréttum frá Íslandi 1873 segir, að alls hafi farið vestur um haf það ár hátt á þriðja hundrað manns, og hafi fáeinir farið til Suður-Ameríku og ætlað að setjast að í Brasilíu. Hermann segir mér, að það hafi verið einir 30, flestir úr Bárðadal.

"Brasilíufarar" Magnúsar Bjarnasonar söguskáldsins góða, vestan hafs, eru að öllu eigið hugarsmíði höfundarins. Lítill sem enginn kunnugleiki kemur þar fram um hagi þessara landa vorra í Brasilíu.

Hjón höfðu farið frá Sandvík í Bárðardal í hópnum 1873, með 4 uppkomin börn, og voru bæði hjónin náskyld Hermanni Jónassyni. Veturinn 1886 eða 1887 kemur hingað í kynnisför sonur þeirra hjóna. Hann kvað löndum líða vel, komast af, en efnin ekki mikil. Þeir bjuggu svo dreift, að félagsskapur gat eigi haldist þeirra í milli. Vissu þó nokkurnveginn hverir af öðrum. Var þar mest

þýzkt fólk, og lærðu Íslendingar tungu þeirra, giftust stúlkurnar þýzkum mönnum og yngissveinarnir íslenzku tóku sér þýzkar konur. Mun nú aldauða íslenzkan, eða því sem næst, þar um bygðir.

Nefnt get eg minnugan mann og margfróðan, sem eg hygg að hafi verið framarlega í Brasilíufélagsskapnum, og gæti margfaldlega betur sagt frá þessu, og er það Jakob Hálfdánarson borgari á Húsvík, forn Mývetningur.

Beztu sögulaun fyrir mig, gæti einhver hjálpað mér um vísu, sem upp kom í Laufási, er mest gekk á með undirbúninginn til Brasilíuferðanna. Heyrði eg vísuna oft í bernsku og var upphafið: "Stefna nýir Nesi að"; og seinni partinn kann eg svo:

Fætur lýja og bera blað
Brasil-íu-legir.

Þ. B.

---

## BRASILÍUVÍSUR. II.

1. Til Brasilíu bregða sér
bezt er þegnum snjöllum.
Þar sælgæti eilíft er
í Rúsínufjöllum.

2. Og við hunangs-elfurnar
allir gleði njóta
á því svæði sælunnar
sem að aldrei þrjóta.

3. Margir sagnameistarar
meining slíka bera:
( *dáins* að -*akur* þar
indæll muni vera.

4. Ef að reyndist þannig það
þrautir mundi skerða,
Íslendingar í þeim stað
ódauðlegir verða.

Það er engin eftirsjá
Íslandsniðjum fríðum
kreika héðan köldum frá
krækiberja-hlíðum.

6. Fyrða þjáir hregg og hríð
*hér* um vetrar-dægur.
*Þar* er sífeld sumartíð,
sólarhiti nægur.

7. Fölnar aldrei foldar þar
fagur aldinblómi;
grænar hlíðir glóbjartar
gyllir uppheimsljómi.

8. Slíkir votta fyrðar frægð
og frelsislöngun neyta
suður í þá sælu-gnægð
sem að héðan leita.

9. Sæmdarruki sýnist mér
sig úr ánauð losa
og leggjast ekki lúinn hér
lands á kaldan mosa.

10. Snúum vorri fóstru frá,
festum dúk við rengur,
búum ekki, bræður, á
brjóstum hennar lengur.

11. Gleymum landi, gleymum þjóð,
gleymum æskusporum,
einnig því, að íslenzkt blóð
í æðum rennur vorum.

12. Léttbært verður lífið þá,
lukku glansar hagur,
upp mun renna alt þar frá
enginn mæðudagur.

13. Þar sem allskyns auðnuhnoss
yndis þróar standið,
fögur gæfan flytji oss
í fyrirheitna landið.

# Viðbætir við æfisögu og endurminningar frá æskustöðvunum.

LESENDURNIR muna sjálfsagt eftir því, að í Almankinu árið 1914 birtist æfisaga Sigfúsar Magnússonar frá Grenjaðarstað, sem nú á heimili í Duluth. Var hún rituð af honum sjálfum og flutti mikinn fróðleik, bæði er snerti ýmislegt heima á Íslandi og viðkomandi flutningum hingað. Nokkru síðar sendi Sigfús mér viðbætir þann, sem hér kemur, ásamt öðru ritmáli, sem siðar verður notað.—Útgef.

Um fermingu fórum við bræður að reyna veiðiskap í Laxá, rétt neðan við Brúarfossana, þótti okkur gaman að því og voru gjörð fyrir okkur nokkur lagnet til veiðanna. Á vorin þegar ís var leystur af ánni og vorvöxturinn farinn, veiddist bezt, því þegar slí eða slím fór að vaxa í ánni var ekki hægt að veiða. Í Prestshvammi sem stendur að austanverðu við ána var þá bóndi, Sigvaldi Magnússon og veiddi hann við austurbakka árinnar. Til veiðanna höfðum við lítinn pramma með engum kjöl og gat hann flotið á mjög grunnu vatni og var stöðugur, enda var áin þar full af flúðum og býsna straumhörð. Nokkru neðar var reglulegur ferjustaður og var það víst skylda að ferja messufólk sem kom gangandi til kirkjunnar, enda sázt það glöggt frá bænum því of langt var á milli til þess að hó heyrðist. Flakkarar og allur gangandi líður var þarna fluttur yfir ána, fyrir enga borgun. Stundum var líka ferjað fé og ýms flutningur.

Þessum örnefnum man eg eftir á Grenjaðarstað: Eiríkskletti, sem var rétt neðan við fossana. Draugur hét klettur norðvestan af bænum og aðskilinn frá hrauninu, líklega 6 til 8 fet á hæð og átti hann að vera gamalt nátt-tröll. Draugahellir var nefndur rétt norður af Draug í hrauninu sjálfu og í túninu vestur af bænum var svo kallað drauga-

hesthús. Var það lagt niður í minni tíð og flutt suður að kvíbólinu. Margar kynjasögur gengu um þetta hesthús, sem stóð í sambandi við hús undir lopti í baðstofunni á Grenjaðarstað. Draugavarða stóð á norðurenda Þórgerðarfjalls og fylgdi henni ýms átrúnaður, sem var enn við líði eftir það að eg var fullorðinn. Fyrir sunnan bæinn vóru nefndir Grænuhólar, átti bærinn að hafa staðið þar til forna þegar Grenjaður gamli og Þórgerður voru uppi. Eftir Þegjandadal rann lækur, sem kom frá Hvítafelli, er stóð við dalbotninn syðst, var hann kallaður Kálfalækur,* (svo var og nefndur ríkismanna hóll norðan við bæinn og lá gatan heim í hlaðið eftir hól þessum. Eitt sinn var þar á ferð Grímur Thomsen ásamt nokkrum Englendingum, sem gistu á Grenjaðarstað, og kallar Grímur þegar hann er á hólnum: "Hér sé Guð í bæ" sem siður var að kalla á glugga að nóttu til á Íslandi í þá daga og líklega enn). Eyktamörk voru á Grenjaðarstað þessi: miður morgun (klukkan sex) á Prestshvammi, dagmál (klukkan níu), á Geitafellshnúk, hádegi á Hvítafelli, nón á Múlastöplinum, miðaptan í Gönguskarði og náttmál klukkan níu á Viknafjalla endum. Margir bæir í grendinni höfðu miðaptan á Göngu-skarði svo líklega hafa ekki eyktamörkin verið alstaðar rétt.

Á Grenjaðarstað dvaldi einn vetur (líklega 1863—64) Englendingur, að nafni Ralph Milbank, og var hann af lorðaætt á Englandi og amma hans var móðir skáldsins Byrons. Milbank var útskrifaður af skólanum í Oxford og um 25 ára gamall, og kallaði sig Hrólf til þess að vera, sem allra íslenzkastur. Um veturinn fótbrotnaði hann í túninu á Grenjaðarstað og lág í rúminu einar 6 eða 7 vikur. Finsen sem þá var læknir á Akureyri kom norður og batt um brotið og var Milbank rétt gróinn sára

---

* Björn sálugi bróðir minn var eitt sinn að slá við lækinn rétt hjá bænum og kvað hann þá:

"Foldarstrá í fríðri mynd,
Fellir ljárinn bitur,
Sú hin bláa bæjarlind,
Blómstra nái flytur."

sinna þegar hann lagði á stað heimleiðis um vorið og hafði fyrir fylgdarmann Pétur Jónsson frá Húsavík sem býr í Siglunesbygð í Manitoba.

Þenna vetur stundaði hann málið af hinu mesta kappi og hafði séra Jón Ingjaldsson, sem þá var prestur í Húsavík komist á snoður um það og vildi fræða Milbank sem mest um ágæti og fullkomleika íslenzkunnar og reit séra Jón honum eitt sinn bréf um auðlegð málsins, þar sem það hefði svo mörg orð yfir sama, og tók t.d. skott, stél, o.s.frv., voru nöfnin mörg eins og menn vita. Svo hafði séra Jón fjölda af orðum yfir tímgunarfýsn dýra og margt fleira og var bréf séra Jóns á mörgum örkum. Utaná þessu bréfi stóð þetta: "Eðallegum enskum málvitringi, Rudolf Milbank berist blað, sem býr um stund á Grenjaðarstað."

Milbank fékk ást á stúlku þegar hann dvaldi á Grenjaðarstað, en var svo óheppinn að hún var bundin heiti við ungan og efnilegan mann í sveitinni. Milbank var höfðingi í lund og einn af þeim fáu sem eiga með réttu nafnið "Gentleman." Gaf hann Helgastaðahrepp töluverða upphæð í peningum, sem útbýtt var í kornvöru, meðal þeirra fátækustu. Hann sæmdi alla mína familíu með stórgjöfum og meira að segja, sendi heim töluvert eftir að hann fór úr landi. Hann tók sér íslenzkan búning og klæddist vaðmálsfötum alveg heima tilbúnum og gekk á sauðskinns-skóm. Sem sýnishorn af málinu, íslenzkunni, sem hann var að læra, set eg hér eina setningu, sem hann sagði við mig þegar við komum heim úr skíðaeða skautaferð: "fætur mínir eru kaldir" sem töluvert líkist enskunni.

Þegar við bræður lögðum af stað frá Grenjaðarstað út á Húsavík, voru með okkur tveir fylgdarmenn: Sæmundur Eiríksson, þá sýsluskrifari og Sigfús Sveinsson nú í Nýja Íslandi; voru báðir þessir menn frændur okkar. Þegar kom uppá Hvammsheiði, gerði á okkur dimma mollu hríð svo við fórum að Holtakoti í Reykjahverfinu og fengum þar hinn þriðja fylgdarmanninn. Á leiðinni að Þverá urðu þeir allir viltir nema nafni minn. Hann sagði okkur bræðrum að bíða á vissum stað og fór að

leita slóðar, sem hann vissi af nálægt, fann hann hana og við náðum að Þverá og sátum þar hríðteptir næsta dag. Hríðin var svo dimm að fylgdarmanninum frá Holtakoti var ekki slept og er þó ekki langt á milli þessara bæja, eins og kunnugir vita.

Um veturinn þegar eg var í Húsavík, fylti allan Skjálfandaflóa með hafís og fraus öll sú hella saman með lagís. Ís þessi var mjög ógreiður yfirferðar, fyrir hafísjakana, sem stóðu uppúr lagísnum og var líkast því að ganga í hrauni, samt var verið að leggja lágvaði fyrir hákall rétt á höfninni framundan kaupstaðnum eða undan svonefndri Böku, sem gekk fram af Húsavíkurhöfða.

Johnsen lét þá hlaða snjó upp að öllu íbúðarhúsinu og búðinni, sem var undir sama þaki, því kuldinn var napur þegar vindur stóð af ísbreiðunni norðvestan flóann. Byggingar á Húsavík voru í þá daga ekki merkilegar að mestu leiti þök og veggirnir mjög lágir. Öll voru húsin bikuð með koltjöru og var orðið þykt lag af henni nema í stöku stað, þar sem sólin hafði náð til. Ein bygging var hjá sýslumannshúsinu sem var tómt þak alveg frá jörð og var það kallaður skúr.

Vissulega hefur Jakob Johnsen verið svinnur maður og bendir þetta í þá átt. Um veturinn þegar eg var að læra að skrifa var það siður Johnsens að láta mig og bræður mína hafa penna, sem börn hans höfðu áður notað, en þess utan var hann mesti fyrirhyggjumaður og bezti búmaður, enda kom konu hans betur að hafa frjálsar hendur í búrinu og jafnvel líka í búðinni; vissu engir það betu r en fátæklingarnir á Húsavíkurbakkanum og sveitunum í kring. Sem dæmi uppá þetta, skal þess getið að eittsinni kom í kaupstaðinn kona framan úr Reykjadal, kvaðst hún eiga dóttir, sem Hildur héti og ætti hún að fermast um vorið. Fékk þá þessi kona fermingarföt eða efni í þau, handa dóttur sinni og varð mjög glöð og þakklát, bað Guð að launa, en segir um leið og hún er að kveðja: "enn þá vantar Hildi á höfuðið," úr því var strax bætt, og varð þetta síðan alment máltæki í plássinu.

Eftir því sem mér hefur verið sagt, mun Johnson hafa

fengið sinn fyrsta gróða á selskinnaverzlun. Keypti hann selskinn norður á Sléttu og Langanesi og fór lestaferðir með þau suður á land þar sem þau seldust fyrir hátt verð. Verzlunar-andi hans kom snemma í ljós, en oft lét Johnsen brúnir síga og voru ístöðulitlir hræddir við hann, en sakir orðheldni hans og búvits var hann virtur af öllum sem þektu hann eða kyntust honum, þó svipur hans væri nokkuð harðneskjulegur og líktist manni, sem er sjálfstæður og ekkert hefir að óttast.

Þegar hin nýju póstlög gengu í gildi og öllum póstgöngum bæði breytt og fjölgað að mun, póstafgreiðslustaðir og bréfahirðingastaðir stofnaðir um alt landið, þá gerðist eg póstafgreiðslumaður á Grenjaðarstað undir Óla Finsen, sem var hinn fyrsti póstmeistari í Reykjavík og hélt eg því starfi þangað til eg fór til Ameríku hið fyrra skifti og þegar eg kom heim aftur, tók eg enn við póstafgreiðslustörfum í Múla af séra Benidikt Kristjánssyni frá Helgastöðum, sem þá var prestur á Grenjaðarstað og vildi verða laus við starf þetta; þá gengdi eg starfi þessu þangað til vorið 1882 að eg fluttist austur á Seyðisfjörð einsog fyrr segir.

Ástæðan til þess að eg flutti frá Múla og austur á Seyðisfjörð var að þar var þá álitið að væri regluleg gullnáma, með því að Norðmenn voru þá að ausa þar upp þorski og síld og svo hafði eg hugsað mér að stunda þar smáskamtalækningar, sem eg hafði nokkuð numið af föður mínum og hafði hjálpað honum frá því eg var unglingur, enda var þetta nálægt eða í því plássi, þar sem hann hafði getið sér góðan orðstír þegar hann var prestur á Ási í Fellum. Sjávarútvegurinn brást mér algjörlega, með því líka að eg þekkti sjálfur lítið til sjóútgerðar, varð að sjá alt með annara augum og félagsmaður, sem ég tók mér var engu betri; ónýttist fyrirtækið og allir þeir peningar er í það gengu.

Mestan hluta tímans sem eg dvaldi á Seyðisfirði var eg á Vestdalseyri og árið 1883 bygði eg þar vandað hús. Undirlög hússins voru fylt með grjóti og múrstein hlaðið í veggina til tryggingar í stórviðrum, sem þar voru mjög tíð. Fluttum við í þetta hús 5 .júlí sama ár. Bræðurnir

Sveinn og Björgólfur Brynjólfssynir voru aðalsmiðirnir við bygginguna.

Hinn 11. júlí 1884 flutti faðir minn til mín í þetta hús og dvaldi hjá mér þar til eg fluttist til Ameríku,alfarinn; fór hann þá norður að Garði í Aðaldal.

Þegar eg kom á Seyðisfjörð átti eg kost á að kaupa hús inná Öldunni, en vegna snjóflóða, sem eg heyrði getið vildi eg ekki setjast þar að, og leigði því hús á Vestdalseyri, sem Björn póstur átti og bjó líka sjálfur í.

Um veturinn 18. febrúar kom yfir Ölduna þetta voða snjóflóð, sem drap yfir 20 manns og sópaði burtu mörgum húsum og sumum út í sjó. Eitt af þeim var húsið, sem mér hafði boðist til kaups en það var hús Sigurðar homóöpatha frá Breiðavaði. Fyrir flóðið varð margt af fólki húsvilt og flutti sumt af því í mitt hús þangað til það fékk aðra verustaði.

Einn vetur léði eg stofu fyrir barnaskóla og var Lárus Tómasson kennari. Elzta dóttir mín gekk á þennan skóla, sem varð auðvitað að litlum notum þar sem hún fór úr landi sama ár.

---

Og ekki má eg gleyma að minnast á hin gömlu mataráhöld: askinn og hornspóninn. Reyndar man eg ekki eftir að eg borðaði úr aski en þó má það vel hafa verið, en hornspón brúkaði eg í mörg ár og hefi víst ekki lagt hann niður fryr en í Múla eða Seyðisfirði. Á heimili mínu voru þó altaf brúkaðir askir og man eg eftir þeim seinast þegar eg var um fermingu, en þá var samt mikið komið af skálum og spilkomum; svo var í brúki nokkuð af tindiskum. Tindisk átti eg og var stafrofið þrykt á barðið, svo eg gæti lært það meðan eg var að borða ! ! Líklega hafa bollarnir komið til Íslands með kaffinu og þá fyrst úr tini, það var minsta kosti ekki gott að drekka kaffi úr öskunum; þó get eg ekkert sagt um þetta með vissu, en einhverjir muna máske betur.

Siðir í kirkjunni á mínum yngri árum voru þeir: að ef einhver gekk út um messutíman, þá hneigði hann sig

í áttina til prestsins hvort heldur hann var fyrir altarinu eða í prédikunarstólnum. Svo var og venja að lúta höfði þegar Jesús var nefndur, bæði við húslestur og í kirkjunni en þennan sið hafði mest gamalt fólk en als ekki yngri kynslóðin.

Þegar eg kom fyrst að Grenjaðarstað 9 ára gamall, var afi minn séra Jón svo frískur, að hann reið í kaupstaðinn einu sinni á ári, og þegar hann reið úr hlaði tók hann ofan höfuðfatið og las bæn, sem sjálfsagt var lengi siður á Íslandi ef til vill kominn frá Hallgrími Péturssyni, sem segir í sínum dýrmætu passíusálmum: "Bænarlaus aldrei byrjuð sé" o.s.frv.; þó veit eg auðvitað ekkert hvað þessi siður er gamall, og nú líklega að mestu leyti lagður niður á Íslandi nema að sjómenn kunni að hafa hann enn. Á Seyðisfirði sungu Færeyingar þegar þeir létu frá landi og var það mjög svo einmanalegt gaul, sem lýsti þunglyndi og undirgefni um leið. Íslendingar vissi eg ekki til að hefðu um hönd nokkurt gott orð, þegar þeir lögðu út, en það má vel hafa verið fyrir því; það var þá siður að fara mjög í felur með trú sína og jafnvel skammast sín fyrir hana.

---

## Jólahaldið á Grenjaðarstað.

Ekki má eg gleyma að minnast á Jólahaldið á Grenjaðarstað. Það var venja flests af vinufólkinu og okkar systkinanna, að leggja saman og kaupa sælgæti úr kaupstaðnum, svo sem kaffi, sykur, brauð eða hveiti til að baka úr og 2 til 3 potta af rommi eða koníaki. Var þá slegið upp dansleik og jólaleikjum. Fólkið var nógu margt til að mynda góða skemtun, sem öllum kom saman um, enda gekk alt með friði og spekt og enginn neytti víns um of, því milli svo margra var að skipta. Vanalegast var þessi skemtun höfð um hönd milli jóla og nýárs og oft á gamalárskvöld. Stundum var boðið fólki af öðrum bæjum sem voru góðir kunningjar einhvers á Grenjaðarstað, og jók það enn meira í jólaskemtunina. Ýmsir spiluðu fyrir dansinum og vóru þrjú hljóðfæri: fíólín, harmonika og flauta. Aldrei var þó spilað saman

á þessi hljóðfæri, því til þess treystust menn ekki í þá daga og var því haft sitt hljóðfærið í hvort skifti. Fólkið á Grenjaðarstað var um þetta leyti mjög gefið fyrir söng svo með köflum skemtu menn sér með því að syngja eftir Jónas, Jón Thoroddsen, Steingrím, Gröndal og Matthías. Þá voru öll þessi skáld í miklu uppáhaldi, einsog enn þann dag í dag, enda gátu allir fengið frá þeim það sem þeim líkaði, hvort heldur voru ættjarðarkvæði, ástaljóð eða náttúrulýsingar, og þó enginn væri forseti við þessa skemtun voru menn ánægðir því allir höfðu jafnan rétt til að stynga uppá hvað og hvernig menn skildu skemta sér. Menn æfðu sig oft líka á sálmalögum því í þennan mund kom út á Akureyri nótnabók eftir Ara Sæmundssen (um 1860) og þó nótnabók þessi væri ófullkomin og lögin í henni með bókstöfum, þá var þetta hinn fyrsti vísir til að bæta sálmasönginn á Íslandi, sem var hið mesta afskræmi í þá daga; samt sem áður var alt gamla fólkið á móti þessum nýju lögum, það var engin guðhræðsla eða guðsdýrkun í þeim, að þeirra dómi. Ari Sæmundsson var því fyrsti maðurinn, sem umbætti sálmasönginn á Íslandi, en hefir hingað til ekki fengið neitt hrós fyrir það, það hefur allt lent á Pétur Guðjónsen, sem hann að mörgu leyti átti ekki skilið. Af þessari nótnabók lærði eg fyrst sálmalög, því af þeim gömlu kunni eg næstum ekki neitt.

Eg hefi hingað til slept að geta þess hvað heimilisfólkið fékk frá húsbændunum á Grenjaðarstað, því var öllu veitt með hinni mestu rausn og fátæklinganna í kring var líka minst og voru þeir töluvert margir. Helztu gjafirnar voru rúgbrauð og kerti, auk annars, sem ekki er þörf á að nefna. Þessi siður hafði lengi haldist frá því afi minn var prestur á Grenjaðarstað, enda átti hann gjafmilda konu, Þorgerði Runólfsdóttir frá Þingeyrum í Húnavatnssýslu, og vegna þess að ættmenn mínir eiga hér hlut að máli bið ég menn að fyrirgefa þennan vitnisburð minn, jafnvel þó hann sé tómur sannleikur, enda eru margir bæði hér í landi og heima á Íslandi, sem gætu sannað þennan framburð. — Ritað í Apríl og Maí 1914.

*Sigfús Magnússon.*

# *ÞURÍÐUR SVEINSDÓTTIR.*



Þann 17. marz 1914, andaðist að hemili sona sinna að Amelia P. O. Sask., ekkjan Þuríður Sveinsdóttir Sigurðsson.

Þuríður heitin var fædd 15. október 1852 á Syðrafjalli í Aðaldal í Suður-Þingeyjarsýslu, og ólst upp hjá foreldrum sínum fyrst á Fjalli, en seinna að Garði í Aðaldal.

Foreldrar Þuríðar voru þau Sveinn Jónsson Oddssonar af svokallaðri Hofdalaætt í Skagafirði og Soffía Skúladóttir prests að Múla Tómassonar prests að Grenjaðarstað.

Móðir Sveins var Þuríður dóttir séra Jóns frá Reynistað og alsystir séra Jóns, sem lengi var að Grenjaðarstað.

Móðir Soffíu Skúladóttir var Þórvör Sigurðardóttir prests frá Höfða í Höfðahverfi í Suður-Þingeyjarsýslu.

Það mun hafa verið veturinn 1877 sem hún giftist Jóni Þórarinssyni frá Halldórsstöðum í Laxárdal. Faðir Jóns var Þórarinn Magnússon Ásmundssonar frá Halldórsstöðum.

Móðir Jóns var Guðrún Jónsdóttir frá Bessastöðum í Skagafirði. Vorið 1878 fluttu þau að Langavatni í Reykjahverfi í Suður-Þingeyjarsýslu, þar sem þau bjuggu í 15 ár.

Þeim hjónum búnaðist vel, þrátt fyrir þó að þau hefðu stóra fjölskyldu er tímar liðu. Jón Þórarinsson var maður duglegur með afburðum og búhöldur hinn bezti; hann var talinn karlmenni hið mesta þar í Þingeyjarsýslu, og eru margar sögur þar um. Einnig var hann smiður góður og bókbindari.

Þau Jón og Þuríður eignuðust 8 börn. Af þeim lifa sex, öll hér vestan hafs: Mrs. G. Guðmundsson, gift Guðmundi Guðmundssyni, bónda nálægt Mountain, N. Dak.; Þóra, skólakennari að Climax P. O., Sask.; Þórarinn, bóndi að Amelia P. O., Sask. Hann er giftur Þorbjörgu Gísladóttur Johnson. Sveinn og Magnús að Amelia, báðir ógiftir, og Metúsalem, smiður í Winnipeg, giftur Sigríði Katrínu Sigurrós dóttur Andrésar Davíðssonar.

Árið 1888 tók Jón Þorarinsson veiki þá sem leiddi hann til bana. Leitaði hann sér lækningar heima á ættjörðinni, en er það dugði ekki, fór hann til Skotlands og var þar um tíma. En alt árangurslaust; hann dó í Apríl 1891.

Lesarinn getur ímyndað sér ástæður ekkjunnar. Efnin voru nær því til þurðar gengin í þessum langvarandi sjúkdómi mannsins hennar. Hún sá engan möguleika að koma börnunum á framfæri án þess að þiggja styrk, án þess að verða hjálparþurfi. En það var henni um megn að hugsa um. Hún afréði því að leita vestur um haf, þar sem hún átti bróður og systur á lífi.

22. júní sama ár fór Þuríður frá Húsavík með 5 börnin, hið elzta á 13. ári en hið yngsta á 2. ári, ásamt með allmörgum vesturförum. Magnús næstur því yngsta, varð eftir hjá óðalsbónda Sigurjóni Jóhannessyni á Laxamýri, sem sýndi það drenglyndi að taka hann til fósturs.

Sannorður maður hefir sagt, að á leiðinni vestur yfir hafið, hafi vesturfararnir verið afar óánægðir. Alla vantaði eitthvað og allir fóru þeir til vesturfarastjórans, Sveins Brynjólfssonar, sem þeim fanst að bæta ætti úr öllum þeirra þörfum, sem hann gerði eftir megni. Varð honum þá eitt sinn reikað inn í svefnklefa nokkurn. Tvær ferðakistur voru á gólfinu og tvö rúm. Í öðru var ekkja með börnin sín fimm. Fjögur þeirra hjúfruðu sig

að móðirinni en í fanginu hafði hún drenginn yngsta á öðru ári. Honum varð þá að orði:

"Þuríður Sveinsdóttir, hvernig stendur á því, að þig eina vantar aldrei neitt?"

Konan leit upp og úr augunum skein viðkvæmni. Hún horfði yfir barnahópinn sinn og síðan aftur á vesturfarastjórann, en augun voru þá full af tárum. "Nei, mig vantar ekkert," var svarið. Hún ein hafði ekki ástæðu til að kvarta.

Ferðin gekk vel og var viðstöðulaust haldið til Long Pine í Nebraska ríkinu.

Land var þá sem óðast að byggjast í Nebraska, og mátti ná í heimilisréttarland nálægt þorpinu LongPine, en ekki sá Þuríður sér fært að gera það þó að Þórvör systir hennar og Jón Halldórsson, sem bjuggu þar skamt frá, mundu hafa hjálpað henni eftir föngum. Tóku þau hjón á móti þeim með opnum örmum og voru þau þar öll um tíma. Svo settist Þuríður að í þorpinu og vann fyrir sér og börnunum með því að draga á þvott fyrir hótelið þar. Tóku nú elztu börnin að hjálpa henni er þau eltust og lærðu málið.

Í Long Pine dvaldi Þuríður 5 ár eða þangað til 1896 að hún flutti til Mountain, N.-Dak., þar bjó Sigurjón Sveinsson bróðir hennar. Þau systkin höfðu ekki sézt frá því þau voru unglingar heima á ættjörðinni og þektu ekki hvort annað.

Að Mountain var hún 2 ár. Árið 1898 tóku þau systkin, Sigurjón og Þuríður upp heimilisréttarlönd þar nálægt, sem nú er þorpið Munich, N.-Dak. Það var um 30 mílur frá járnbraut, og fluttu þangað vestur á löndin um vorið.

1. júlí 1899 giftist Þuríður í annað sinn, Indriða Sigurðssyni. Þau bjuggu nálægt Munich, N.-Dak., í 5 ár eða til 1903, er þau keyptu gott hús í bænum Edinburg, N.D. Þar voru þau í 7 ár. Þeim Indriða og Þuríði varð ekki barna auðið.

Árið 1910 tók Indriði Sigurðsson ásamt með stjúpsonum sínum upp heimilisréttarland nálægt þar sem nú er

Amelia P. O., Sask. Hann flutti svo þangað út hið sama ár, en Þuríður kom þangað í Maí 1911.

Indriði og Þuríður reistu bú þar vestur frá og lánaðist vel, enda var Indriði heitinn framúrskarandi hirðumaður með alt, sem að búskap laut; en á því varð skjótur endir.

Þann 23. Október 1912 varð Indriði Sigurðsson bráðkvaddur að heimili sínu; hann sýndist vera alfrískur áður, en þennan dag kvartaði hann um lasleik er hann kom til miðdagsverðar. Hallaði hann sér út af í stól og var örendur; banamein hans var hjartabilun. Líkið var flutt til Mountain N.-Dak., og jarðað þar hinn 31. Okt. 1912

Alt frá þeim tíma, að Indriði heitinn dó, fann Þuríður til sjúkdóms þess, er leiddi hana til bana. Hún lá 8 mánuði rúmföst og tók mikið út með köflum, en veikindi sín bar hún með einstakri stillingu og fylgdist vel með því er gerðist í kringum hana, alt til hinnar síðustu stundar. Ekki vissi hún hvaða sjúkdómur það var, sem gekk að henni, en hana hafði dreymt, að hún ætti bráðlega að skilja við—og hún bjó sig undir skilnaðinn.

Aftur og aftur kvaddi hún börnin sín, sem hún hafði hjá sér, en hin kvaddi hún í huganum;—hún unni þeim öllum svo heitt, og fyrir þau hafði hún lifað, og á sinni löngu æfileið hafði hún jafnan verið reiðibúin að láta alt í sölurnar, líf, heilsu og eignir, til þess að þeim gæti liðið vel. Hún dó, eins og áður er sagt, 17 Marz. Líkið var flutt til Mountain, N.-Dak., og jarðað þar 25. sama mánaðar. Húskveðja var haldin að heimili dóttur hinnar látnu Mrs. G. Guðmundsson, og töluðu þeir prestarnir Friðrik J. Bergmann og Kristinn K. Ólafsson. Sömuleiðis héldu þeir báðir ræður í kirkjunni, en séra K. Ólafsson kastaði á rekunum, en séra F. J. Bergmann talaði orðin síðustu yfir gröfinni.

Þuríður heitin var góð eiginkona og elskuleg móðir. Hún var ræðin og skemtileg hversdagslega, og ættfróð með afbrigðum. Vinum sínum var hún holl—sagði þeim sannleikann, þó beiskur væri hann stundum. Örlát var hún um hóf fram, að mörgum þótti, og mörgum virtist hún vera betur fallin til að hjúkra og liðsinna en að

stjórna, og er það þess vegna undravert, að hún komst svo áfram með börnin sín mörg og smá, er fyrra manns hennar misti við og sýnir það, að mönnum hefir þar skjátlast. Vinföst var hún og mjög.

Margir eru nýbyggjarnir íslenzku. Margir, sem að aldrei sjá árangur verka sinna, og margar eru konur þær, sem að aldrei mun getið af því að þær voru konur, en þó héldu þær við þeim arineldi, sem alla vermdi og án þeirra hefði verkið verið naumast hálfunnið.

Ein af þessum konum var Þuríður Sveinsdóttir. Hún vissi hvað nýlendulífið var, því að hún reyndi það tvisvar. Marga gladdi hún á þeim tíma. Margir voru það, sem bar að garði hennar í öll þau ár, og úr þörfum þeirra allra reyndi hún að bæta eftir föngum.

En árangur verka sinna fékk hún ekki að sjá til fullnustu. Þó að börnin hennar, sem eru bæði væn og myndarleg, væru henni til sannrar ánægju, og hjá þeim undi hún sér bezt. En nú, er þau gátu endurgoldið henni, þá var hún frá þeim tekin.

**Vinur hinnar látnu.**

---

# *SÍMON SÍMONARSON*

---

Hann er einn þeirra manna í hópi Vestur-Íslendinga, sem þess vert að Almanakið geti. Hann er nú orðinn maður hníginn að aldri og hefir dvalið hin síðari ár hér í Winnipeg, síðan hann brá búi vestur í Argyle. Hann er fæddur 13. des. 1839 að Breiðstöðum í Gönguskörðum í Skagafjarðarsýslu. Kona hans er Valdís Guðmundsdóttir, fædd 3. október 1834 að Krossum í Staðarsveit í Snæfellsnessýslu. Þegar er hún var hálfs árs gömul misti hún föður sinn og fór frá móður sinni til sóknarprestsins og sá hana aldrei upp frá því; ólst hún upp með honum að Helgafelli. Valdís er móðir dr. Valtýs Guðmundssonar í Kaupmannahöfn, sem lengi hefir verið einn hinna nafnkunnustu Íslendinga, fæddur 11. marz 1860. Þau Símon og Valdís voru saman gefin í hjónaband á Höskuldsstöðum í Húnavatnsýslu af síra Páli Jónssyni. Voru þau fyrst til heimilis að Svangrund í Húnavatnssýslu eitt ár og annað að Kambakoti í sömu sveit. Þaðan fluttust þau norður í Skagafjörð að Instalandi á Reykjaströnd og voru þar átta ár. Eftir það voru þau eitt ár á Fagranesi með síra Magnúsi Thorlacius og annað ár að Heiði með Stefáni, föður Stefáns Stefánssonar, kennara. Þá byrjuðu þau búskap í Heiðarseli og voru þar í þrjú ár. Þjóðhátíðarárið 1874 fluttust þau til Ameríku með þeim þrjú hundruð manns, sem það ár fór með eimskipinu Sankti Patreki beinleiðis til Quebec. Eitt ár staðnæmdust þau austur í Ontario-fylki. En þaðan fluttust þau til Nýja Íslands. Komu þangað fyrsta vetrardag 1875. Staðnæmdust þau fyrst á Gimli og námu land í Víðinesbygð nálægt Kjalvík. Þar bjuggu þau hálft sjötta ár. Vorið 1881 fluttust þau til Winnipeg og voru þar eitt ár. Næsta ár 1882 fluttust þau til Argyle og námu land, beint suður af Brú. Þar bjuggu þau laglegu búi í tuttugu ár. Árið 1902 komu



*SÍMON SÍMONARSON OG VALDÍS GUÐMUNDSDÓTTIR*

þau aftur til Winnipeg og hafa verið hér nú í síðustu þrettán ár. Höfðu þau eignast tvær bújarðir í Argyle, sem seldust fyrir 5000 dollara. Af þeim efnum hafa þau lifað, án þess að láta til þurðar ganga, og þó gefið mörgum þurfaling og verið sí-styrkjandi hvert gott málefni, sem drepið hefir að dyrum. Þeim hjónum Símoni og Valdísi varð fimm barna auðið, hafa mist þrjú, en tvö eru á lífi: Guðmundur Símonarson, sem lengi hefir búið í Argyle og á þar stórar jarðir, en nú er fluttur hingað til Winnipeg og er einn af starfsmönnum stjórnarinnar, er sonur þeirra. Og Guðrún, kona Jósefs Skaftasonar, sem um nokkur ár hefir gegnt störfum fyrir fylkisstjórnina hér, er dóttir þeirra, hin ágætasta kona að allra dómi sem þekkja. Eru þau Símon og Valdís nú alflutt til þeirra, og munu bæði dóttir og tengdasonur samvalin í að gera þeim ellidagana sem ánægjulegasta. Ellefta október í haust héldu þau Guðmundur og frú Guðrún Skaftason, gullbrúðkaup foreldra sinna á hinu prýðilega heimili Guðmundar og höfðu margt manna í boði. Skáldin Sigurður J. Jóhannesson og Kristinn Stefánsson ortu þeim fögur kvæði. Og skeyti kom frá dr. Valtý í Kaupmannahöfn og vestan af Kyrrahafsströnd frá Kristjönu, konu Erlends Gíslasonar, sem er dóttir frú Valdísar, og manni hennar, er fluttu gullbrúðkaupshjónunum hamingju-óskir. Hafa þau hjón eigi verið síður heppin með tengdabörn sín en börn. Kona Guðmundar, Guðrún Jónsdóttir, er merkiskona hin mesta og hin ágætasta húsfreyja; enda var alt hvað öðru samboðið á heimili hennar við þetta tækifæri, híbýlaprýðin, rausnin, og smekkvísin.

Símon Símonarson hefir ekki haft hátt um sig um dagana og ekki verið eiginlega við nein stórvirki riðinn. Hann er manna kyrrlátastur í tali og umgengni. En þeim, sem honum kynnast, verður brátt ljóst, að hann á í fari sínu ýmsa kosti, sem til mestrar prýði þykja íslenzkum manni, en langmest virðist vera til af, nú um þessar mundir að minsta kosti, með bændastéttinni. Hann hefir verið þrekinn á velli og þrekinn í lund, raungóður og vinfastur. Hann hefir verið maður fyrirtaks orðvar og

í sögum og æfintýrum, og talinn ættfaðir stórrar og merkar kynslóðar í því héraði.

Jón og Ingun foreldrar Einars voru systrabörn; Lilja móðir Jóns, og Rósa móðir Ingunnar, voru dætur Péturs Hanskamakara; og bjó hann eittsinni á Ísólfsstöðum á Tjörnnesi; faðir Jónasar Péturssonar er alment var kallaður "Jónas snikkari," faðir Jóhanns Gottfreðs bónda er lézt í Pipestone nýlendu í Manitoba. Er ætt sú lítt kunn. En á hina hliðina, föðurætt Ingunar móður Einars, segja ættfróðir menn að megi rekja til Ólöfar ríku Loftsdóttir á Skarði — dáin 1484.—Hún átti Björn Riddara Þorleifsson, af Vatnsfjarðarætt; og eru það 16 liðir.

Einar ólst upp á Hermundarfelli, fyrst með föður og móður, og síðan með stjúpföður, Ólafi Gíslasyni og móðir sinni, þar til árið 1870, að sú familía flutti að Brimnesi á Langanesi; þar var hann í þrjú ár. Árið 1873, fór hann sem vinnumaður til Björns bónda Björnssonar í Laxárdal í Þistilfirði og dvaldi þar um þriggja ára tíma. En þaðan fluttist hann að Bakka á Langanesströndum, til Lárusar bónda Guðmundssonar, sem var Húnvetningur að ætt, en kona hans hét Kristbjörg, Jónsdóttir, Gíslasonar skálds Benidiktssonar, sem hér að framan er getið. Voru þau því náskyld, Einar og kona Lárusar.

Um vorið 1877, lenti Einar austur í Vopnafjörð og var þar eitt ár, á bæ sem heitir Hámundarstaðir, fór svo aftur að Bakka til Lárusar, og átti þar heimili, þar til hann fór til Ameríku, 1. júlí 1879. Gekk ferðin greitt, og án nokkurra sérlegra viðburða vestur um hafið, og lenti hann, og þeir sem með honum voru, nær 250 að tölu, í Quebec 19. júlí. Þaðan var haldið til Toronto, og þar skildi Einar við samferðafólk sitt.

Frá Toronto fór Einar til Alvinston, og settist þar að fyrir tíma, hjá Jónasi frænda sínum, sem flutt hafði vestur fyrir nokkrum árum — fór 1874. Jónas þessi frændi hans var Jónathansson, bónda Þorkelssonar frá Flautafelli í Þistilfirði. Móðir Jónasar hét Guðlaug Jónsdóttir systir Kristbjargar á Bakka, svo þeir Einar og Jónas voru það sem vanalega er kallað þrímenningar.

Einar dvaldi svo um nokkurra ára tíma á ýmsum

stöðum í Ontario fylki; lengst þó í London, og Chatham, og þangað flutti Jónas líka, og andaðist þar hinn 23. ágúst 1883.

Árið 1884, flutti Einar til North Dakota, var það um haustið, snemma í nóvember; kom hann á þeirri ferð við í Chicago, og hitti þar nokkra landsmenn sína, en endaði ferðina á Mountain N. D. Þar var hann svo á ýmsum stöðum í hálft annað ár, eða þar til um vorið 1886, að hann fluttist til Duluth, Minn., og þaðan, eftir fjögur ár, eða 1890 til Helena Mont., síðan þaðan suður til Spanish Fork í Utah, og þar hefir hann hafst við síðan.

Einar er tvíkvæntur, og eru báðar konur hans dánar. Fyrri kona hans hét Gúðrún dóttir Hallgríms bónda Ólafssonar, Gottskálkssonar frá Svertingsstöðum í Kaupangssveit í Eyjafirði; og Sigríðar Jónasdóttir, frá Veturliðastöðum í Fnjóskadal, Bjarnasonar frá Reykjum Halldórssonar frá Bakka. — Bjuggu foreldrar Guðrúnar á Fremstafelli í Köldukinn í Suður-Þingeyjarsýslu. Guðrún var alsystir Jónasar Hall á Garðar, og þeirra systkina. Hún andaðist 19. september 1889.

Seinni kona Einars hét Ingibjörg, dóttir Árna bónda Sveinssonar á Hálsi í Hálsþinghá í Norður Múlasýslu, og síðar á Hærukollsnesi, Péturssonar prests á Berufirði. En móðir hennar hét Guðný Jónsdóttir Guðmundssonar bónda að Kélduskógum, og Guðrúnar Gunnlaugsdóttur, prests, Þórðarsonar á Hallormsstað. Ingibjörg lézt 10. janúar 1913.

Með konum sínum eignaðist Einar tvo sonu, og eina dóttir; eru synir hans báðir stórir og mannvænlegir menn, og dóttirin mesta myndar kona; öll eru börn hans fullorðin, og gift. Dóttir hans býr í Spanish Fork, og hjá henni hefur Einar verið með annan fótinn síðan hann varð ekkjumaður í seinna sinn.

Einar er maður vel við vöxt; nær 6 fet á hæð. Hann er fríður sínum; djarflegur, kurteis og viðfeldin í allri framkomu. Hann er tryggur og vinfastur; en vina vandur, líkt og margir forn-Íslendingar voru. Það er sérstaklega skemtilegt að hitta hann heima hjá sér, og á skrifstofu sinni, því hann er bæði ræðinn og fróður um

margt, auk þess sem hann er mjög gestrisinn, eins og margir landar vorir eru. Hvað stjórnmálum viðvíkur, er hann mjög ákveðinn "republican", en hæverskur, og gott að koma máli sínu fram við hann. Vel er hann heima í lögum þessa lands; hefur hann orðið mörgum að liði, bæði löndum vorum og öðrum í þeim sökum. — Sem fréttaritari, held eg fáir hafi komist til jafns við hann, að minsta kosti, enginn gert betur, sem eg tilveit, vegna þess, að hann hefir jafnan haft svo snoturt lag á að krydda ritgerðir sínar með ýmsum skrítlum, sem hafa lýst andans fjöri, og allir hafa gaman af að lesa, sem ekki er nein undur, því maðurinn er dável hagmæltur, en alt er það meinlaust, skrítlur hans og kveðskapur.

Í öllum félagsskapar-málum, hefir hann jafnan verið með þeim fyrstu og fremstu, og styrkt félagsskap, bæði í orði og verki. Hann var hin fyrsti hvatamaður að stofnum verzlunarfélags Íslendinga hér; sömuleiðis lestrarfélagið, Þjóðminningarfélagið, og fleira, og oftast forseti þeirra. Hann hefur líka verið aðal-yfirmaður hins voldugа "Maccabee"-félags hér í bænum, og ríkinu, svo árum skiftir, og lagt undirstöðuna til þess sem það félag er nú orðið hér í bænum. Hann hefur líka verið umboðsmaður og útsölumaður ýmsra verzlunarfélaga síðastliðin 15 ár, og farnast vel.

Margt fleira mætti rita hér um Einar, og geta ýmsra merkra viðburða, sem komið hafa fyrir á lífsleið hans, ef tími og rúm leyfði.

Vér Íslendingar í Spanish Fork, höfum orsök til að vera stoltir af Mr. Johnson, vegna hans miklu og góðu hæfilegleika; líka þess, að hann ritaði landnámssögu þátt okkar svo ágætlega, og síðast af því að hann er sannur Íslendingur.

**G. E. Bjarnason,**
frá Hrífunesi í Vestur-Skaftafellssýslu.

---

# *HELZTU VIÐBURÐIR OG MANNALÁT MEÐAL ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI.*

14. febrúar 1915 var guðfræðisnemi Sigurður Ólafsson vígður til prests í Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg af forseta kirkjufélagsins, síra Birni B. Jónssyni. Foreldrar hans eru Ólafur Erlendsson og Guðríður Þorsteinsdóttir, er búa í Vitleifsholti í Rangárvallasýslu á Íslandi.

Íslendingar er tóku stúdentspróf við Manitoba-háskólann 1915:
*Sigrún Emma Jóhannesson.*
*Sólveig Margrét Thomas.*
*Ólafía J. Jónsson.*
*Magnús Sigurður Kelly.*
*Stefán Björgvin Stefánsson.*
*Björn Methúsalem Paulson.*

Fullnaðarpróf í lögum við háskólann tóku:
*Arnleifur Laurenz Jóhannsson*; er hann sonur Eggerts Jóhannssonar og konu hans, Elinar Hjörleifsdóttir, er búa í Vancouver, B.C.
*Björn Stefánsson*; hafa foreldrar hans búið í Alptavatnsnýlendu. Faðir hans Stefán Björnsson, d. 1914 og móðir Guðríður Björnsdóttir; bæði ættuð af Seyðisfirði.

Fullnaðarpróf í læknisfræði lauk:
*Baldur H. Olson,* sonur Haraldar Olson og Hansínu Einarsdóttur konu hans, til heimilis í Winnipeg; af Húsavík.

Meistarapróf í stærðfræði tók Ólafur T. Anderson frá Selkirk.

Af búnaðarskóla fylkisins luku námi sem búfræðingar:

*Hjálmur F. Daníelsson,* sonur Daníels bónda Sigurðssonar og konu hans, er búa í Grunnavatns-bygð í Manitoba, frá Kolviðarnesi í Snæfellsnessýslu.

*StefánÁgúst Bjarnason,* sonur Guðmundar Bjarnasonar og Guðrúnar Eyjólínu kona hans, er búa í Alptavatns-bygð.

---

Í maí 1915 varð Thomas H. Johnson, þingmaður, ráðherra opinberra verka í stjórn Manitoba-fylkis.

---

2. maí 1915. Kirkja Vesturheimssafnaðar í Minnesota vigð af forseta kirkjufélagsins.

---

31. ársþing hins ev. lút. kirkjufélags Ísl. í V.heimi haldið í Winnipeg 24.-29. júni 1915.

---

Í ágúst 1915. Við kosningar til fylkisþings Manitoba-fylkis náðu þessir kosning: Thomas H. Johnson í Mið-Winnipeg-kjördæminu og Skúli Sigfússon, bóndi og kaupmaður að Lundar, í St. George-kjördæminu.

---

1. október var Skúli Johnson skipaður kennari í latínu og grísku við Wesley College í Winnipeg.

---

1. október byrjaði síra Friðrik J. Bergmann aftur að kenna íslenzku við Wesley College í Winnipeg.

---

3. okt. 1915 fór fram vígsla Gamalmennaheimilisins á Gimli. Forseti hins ev. lút. kirkjufélags Ísl. í V.heimi framkvæmdi vígsluna og gaf heimilinu nafnið *Betel.*

---

# *MANNALÁT.*

9 Maí 1914: Jóhannes Magnússon að heimili dóttur sinnar, Mrs. W. Hillman í Mouse River-bygð (fæddur að Hóli í Tungusveit í Skagafirði), 80 ára.

13. Júlí 1914: Sigríður Frímann, kona Lárusar Frímanns bónda í Mouse River-bygð og lengi bjó við Akra, N.-Dakota. (fædd í Kolviðarnesi í Hnappadalss.) 80 ára.

18. Ágúst 1914: Ingibjörg Sveinsdóttir, til heimilis hjá syni sínum Sveini Sigurðssyni í Winnipeg. Ekkja Sigurðar Guðmundssonar, bæði ættuð úr Skagafirði;

1. Sept. 1914: Sigríður Magnúsdóttir, kona Jóns Sigurðssonar í Mouse River-bygð (frá Finnstöðum í Eyðaþingha; 70 ára.

31. Okt. 1914: Jón Filippusson, bóndi í Mouse River-bygð í N.-Dak., ættaður úr Fljótum í Skagafirði. Fluttist frá Enni á Höfðaströnd 1883; 77 ára.

21. Nóv. 1914: Böðvar Ólafsson til heimilis í Gladstone, Man. Var hann sonur Ólafs Jónssonar á Sveinstöðum í Húnavatnssýslu. Ekkja Böðvars heitir Ragnhildur Þóroddsdóttir; eiga 6 börn; 62 ára.

10. Des. 1914: Brynjólfur Gunnlaugsson, bóndi í Argylebygð; ekkja hans er Halldóra Sigvaldadóttir (úr Þingeyjarsýslu); 67 ára gamall.

15. Des. 1914: Guðrún Hallgrímsdóttir, gift enskum manni í Dauphin, búa foreldrar hennar á Big Point, Man., (úr Mýrasýslu); 30 ára.

19. Hjálmar, sonur Kristins Gunnarssonar og Margrétar konu hans í West-Duluth; 26 ára.

20. Des. 1914: Stefán Benediktsson til heimilis við Íslendingafljót í N.-Íslandi (frá Bakka í Borgarfirði í N.-Múlasýslu; fluttust hingað 1886); 80 ára.

21. Des. 1914: Skapti Brynjólfur Brynjólfsson í Winnipeg; 54 ára.

23. Margrét Vigfúsdóttir, kona Bjarna Sveinssonar í Blaine, Wash., (ættuð úr Vestmannaeyjum; 64 ára.

24. Des. 1914: Aðalbjörg Friðfinnsdóttir, til heimilis hjá syni sínum Jóseph Johnson í Winnipeg, ekkja Jóns Jónssonar er lengi bjó á Rjúpnafelli í Vopnafirði;

26. Des. 1914: Pétur Björnsson á Gimli; heitir ekkja hans Margrét Björnsdóttir. Fluttu frá Rýp í Skagafirði 1883. 70 ára.

JANÚAR 1915.

1. Bjarni Bjarnason í Seattle, Wash., (ættaður frá Kirkjulandi í Rangárvallasýslu); 59 ára.

8. Guðni Árnason í Selkirk, (frá Arnarstapa í Mýrasýslu); 75 ára.

15. Guðbjörg Jóhannesdóttir, kona Þorláks Björnssonar í New Jersey, )ættuð úr Þistilfirði); 52 ára.

14. Friðný Friðriksdóttir í Winnipeg, ekkja Sigurðar Steinssonar er lengi bjó á Harðbak á Melrakkasléttu;

17. Jan.: Stefán Jónsson í Watertown, S-Dak., (frá Leifsstöðum í Vopnafirði).
22. Jan.: Sigurður Ólafsson í Selkirk, (ættaður úr Mýrasýslu) 74 ára.
24. Jan.: Björn Jónasson, bóndi við Cavalier, N.-Dak,; 43 ára. Foreldrar hans eru Bjarni Jónasson og Guðbjörg Magnúsdóttir, bæði ættuð úr Skagafirði; fluttu hingað vestur 1874.
31. Jan.: Björn Guðlaugsson Beck við Silver Bay, Man., (úr Ólafsfirði í Eyjafjarðarsýslu); 65 ára.

FEBRÚAR 1915.

1. Jónas Kristjánsson hjá dóttir sinni og tengdasyni, Gunnlaugi, bónda við Wynyard, (frá Hvannkoti í Aðaldal í Þingeyjarsýslu).
2. Helga Aradóttir, til heimilis hjá dóttir sinni, Salóme, í Winnipeg, var hún ekkja eftir Guðm. Jónsson, dáinn fyrir löngu, (ættuð úr Húnavatnssýslu); 86 ára.
2. Björg Guðmundsdóttir í Winnipeg, gift sænskum manni, Jackson að nafni (Húnversk); 65 ára.
6. Ragnheiður Kristjánsdóttir, kona Lárusar Goodman í Blaine, Wash., (frá Brekkukoti í Skagafirði), fluttust hingað 1883).
9. Guðrún Ísleifsdóttir hjá dóttir sinni Rebekku og og manni hennar Þórði Bjarnasyni á Skíðastöðum í Árnesbygð í N.-Íslandi. Ekkja Stefáns Sigurðssonar; fluttust hingað 1887 frá Hlöðuvík við Ísafjörð; 80 ára.
13. Ögmundur Ögmundsson, til heimilis í Winnipeg, frá Hrafnkelsstöðum í Hrunamannahreppi.
16. Hallfríður Guðmundsdóttir, kona Sigurðar Stephansens, bónda við Tantallon, Sask.; 29 ára.
17. Þórunn Skagfjörð, til heimilis hjá tengdasyni sínum Stefáni Ásgrímssyni við Mozart, Sask., (ættuð úr N.-Múlasýslu); gömul kona.
18. Kristján Þórðarson Hólm, í Winnipeg, ættaður af Ísafirði; 37 ára.
19. Jónína Ragnheiður Þórðardóttir, kona Tryggva Hinrikssonar í Winnipeg, (ættuð úr Þingeyjars.); 48 ára.
20. Kristján Friðriksson í Blaine, Wash., um sextugt.
25. Sigurlaug Sigurðardóttir, kona Benedikts Líndal í Winnipeg, (ættuð úr Víðidal í Húnavatns.); 55 ára.
25. Pálína Vigfúsdóttir, til heimilis hjá dóttur sinni, Jarðþrúði Guðrúnu (Mrs. Moony) í Winnipeg. Fluttist hingað 1904 af Seyðisfirði, hafði verið gift Einari Hinrikssyni, gestgjafa. Fædd 31. marz 1862.

Í Febrúar: Guðmundur Pétursson, bóndi í ísl. nýlendunni í Minnesota; heitir ekkja hans Sesselja Hermannsdóttir; fluttu hingað vestur 1877. Var Guðm. fæddur á Klippstað í N.-Múlasýslu, 1. apríl 1836.

Í Febrúar: Guðný Margrét Eyjólfsdóttir, Snjólfssonar, kona Bjarna Magnússonar, bónda við Mary Hill, Man. (fædd á Geirólfsstöðum í Skriðdal; Rannveig Ólafsdóttir hét móðir hennar); 67 ára.

MARZ 1915

9. Þóra Einarsdóttir hjá börnum sínum í Selkirk, ekkja Jóhannesar Einarssonar, d. 1913, (ættuð af Tjörnesi í Þingeyjarsýslu); 80 ára.
9. Sesselja Halldórsdóttir á heimili Jónasar, bónda Jónssonar í Akrabygð í N.-Dak. Ekkja eftir Árna Sigurðsson og bjuggu þau í Vallmúla og síðast að Hofi í Skagafirði fram; 81 árs gömul.
10. Sigurður Jónsson við Hallson í N.-Dak. (fluttist hingað frá Torfufell í Eyjafirði 1874). Kona hans hét Sigríður Brynjólfsdóttir d. 1909; 66 ára gömall.
21. Jón Methúsalemsson bóndi við Siglunes-pósthús í Manitoba. Flutti hingað vestur frá Fossvöllum í Jökulsárhlíð 1887; 73 ára.
23. Sveinn Bergmann Þorbergsson í Winnipeg, (ættaður úr Húnavatnssýslu); 51 árs.
24. Elín Guðlaugsdóttir Eiríkssonar (frá Steinkirkju í Fnjóskadal) kona Vigfúsar Hallsonar að Mountain; fluttu frá Krossi í Ljósavatnsskarði árið 1883; 78 ára.
26. Skúli Bergmann Sveinssonar, (frá Kaplaskjóli í Rvík) 32 ára.
27. Ingibjörg Jónsdóttir, kona Eyjólfs Oddsonar í Blaine, Wash., um sextugt.
29. Halldóra Pálsdóttir í Glenboro, Man., ekkja Friðfinns Jónssonar, d. 1901; fluttist hingað vestur frá Þorvaldsstöðum í Breiðdal 1876 og fóru fyrst til Nýja-Íslands og þaðan til Argyle-bygðar; 79 ára.
29. Sesselja Rakel Sveinsdóttir, kona Geirs bónda Kristjánssonar við Wynyard, Sask., (ættuð úr Skagafirði); 52 ára.
31. Vigfús Jósefsson, að Lundar, Man.; yfir sextugt.

APRÍL 1915

8. Björn Jósafatsson (Walters) í bænum Watford í N.-Dak., fæddur á Gili í Svartárdal í Húnavatnssýslu. Voru foreldrar hans Jósafat Sigvaldason og Guðný Guðlaugsdóttir; 45 ára.
8. Hermina Lambertsen í Saskatoon, Sask.; 36 ára.
18. Guðný Pálína, kona Hjartar Davíðssonar á Baldur, Man.; 34 ára.
22. Halldór Bergfinnur Jónsson Berg í Argyle-bygð, (ættaður úr Þingeyjarsýslu), bjó síðustu árin á Íslandi á Svíra í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu; 72 ára.
23. Sigurður Hermannsson í Selkirk, aldraður maður, búinn að vera lengi hér í landi.

28. Ástýr Valgeir Magdal féll í orustu í Belgíu; sonur Guðjóns Hermannssonar af Seyðisfirði; 20 ára gamall.

MAÍ 1915.

4. Halldór Ragnar Þorbergson í Winnipeg; ungur maður
5. Ingibjörg Jónsdóttir Sigurðssonar, gift hérlendum manni, til heimilis í Mouse River-bygð (úr Eyðaþinghá); 45 ára.
6. Guðlaug Gunnhildur Bjarnadóttir, kona Árna Jóhannssonar, bónda á Big Point, Manitoba; 24 ára.
8. Guðrún Arnfinnsdóttir, kona Ólafs Jónssonar í Victoria, bjuggu foreldrar hennar lengi í Vatnsholti í Staðarsveit í Snæfellsnessýslu; 52 ára.
9. Hólmfríður Sigurðardóttir hjá dóttur sinni og tengdasyni í Portland, Oregon, ekkja Hans Jónssonar, er hann dáinn fyrir tveim árum, (úr Mjóafirði) ;76 ára.
19. Guðrún Hallgrímsdóttir, hjá dóttir sinni Mrs. Kristbjörgu Eymundsson í Pembina. Var hún ekkja eftir Jón Benjamínsson; bjuggu síðast í Þórshöfn á Langanesi. Fædd í Hvammi í Eyjafirði 8. júní 1821; 93 ára.
17. Jón Bjarnlaugur Bjarnason í Winnipeg; 17 ára.
24. Sigurdrif Guðbrandsdóttir, kona Magnúsar Maxin í Tacoma, Wash., (ættuð úr Dalasýslu); flutti hingað vestur 1876; 73 ára.
26. Lovísa Vilhelmina Henrietta Sigurðsson á Gimli (úr Reykjavík); 67 ára.
27. Bjarni Guðmundsson, bóndi í Geysis-bygð í Nýja-Íslandi, (ættaður úr Húnavatnssýslu); 44 ára.
27. Guðrún Ólafsdóttir, ekkja Halldórs Jakobssonar, frá Fremri Hundadal í Miðdölum í Dalasýslu, d. 1885. Fluttust þau hjón hingað 1876 og settust fyrst að í Nýja Íslandi og síðan til N.-Dak. og námu land við Mountain. 77 ára gömul.

Í Maí: Hannes S. Eymundarson, bóndi við Ewarts, Alta.

JÚNÍ 1915

1. Oddur Guðmundsson Akranes á Gimli, (ættaður úr Borgarfjarðarsýslu); 63 ára.
1. Sigfús Einarsson, til heimilis hjá dóttir og tengdasyni S. J. Anderson í Norwood, Man., (af Seyðisfirði); 87 ára.
6. Magnús Þorsteinsson, bóndi í Morden-bygð í Manitoba, (frá Gilhaga í Skagafirði); 76 ára.
13. Sólveig, dóttir þeirra hjóna Jóns P. Ísdal og Margrétar Friðriksdóttir í Blaine, Wash.; 17 ára.
14. Anna Katrín Pálsdóttir, kona Jóns Hall, bónda við Garðar, N.-Dak.; 59 ára.
17. Svava, dóttir Jóns P. Ísdal og konu hans Margrétar Friðriksdóttir í Blaine, Wash.; 23 ára.
27. Stefán Sveinsson til heimilis í Winnipeg, sonur Sveins Sölvasonar frá Skarði í Skagafirði. Um fimtugt.

30. Elínborg Guðlaugsdóttir, kona Jóhannesar Helgasonar Bergen í Seattle, Wash.; 35 ára.

Í Júní: Sveinn Sveinsson á Point Roberts, Wash., (úr Skagafirði); um fertugt.

JÚLÍ 1915.

5. Kristján Jónasson í Red Deer, Alta., (fæddur á Knarranesi á Mýrum); 44 ára.

8. Jón Jónsson, járnsmiður í Winnipeg, ættaður úr Mýrasýslu, heitir ekkja hans Sigurbjörg Steingrímsdóttir, ættuð úr Miðfirði í Húnavatnssýslu; 80 ára gamall

14. Anna Hjálmarsdóttir, kona Péturs Vigfússonar bónda við Oak View, Man., (af Seyðisfirði).

14. Sæun Þorsteinsdóttir, hjá syni sínum, Þorsteini kaupmanni við Brown-pósthús í Manitoba. Ekkja Jóns Gíslasonar frá Flatatungu í Skagafirði; fluttu hingað vestur 1883. 73 ára.

17. Jón Vigfússon Dalmann í Winnipeg, (úr Fljótsdal ættaður); 65 ára.

20. Guðlín, dóttir Hreins Goodman í Pine Valley; 24 ára.

25. Guðbrandur, sonur Árna Árnasonar, bónda í Churchbridge, Sask.; 29 ára.

25. Friðfinnur Þorkelsson, bóndi við Wild Oak, Man. ættaður úr Þingeyjarsýslu, heitir ekkja hans Þúríður Jónasdóttir, ættuð úr Eyjafirði; 72 ára gamall.

Í Júlí: Kolþerna Jóhannesdóttir, kona Þorsteins Dalsted, við Svold-pósthús í N.-Dakota; 24 ára.

ÁGÚST 1915

21. Aðalbjörg Þorkelsdóttir, ekkja Jóns Sigurðssonar (af Langanesströndum, d. 1893; fluttu þaðan hingað 1883 83 ára.

25. Bessi Tómasson í Mikley, (frá Grímstöðum í Þistilfirði); 78 ára.

31. Sigurhlíf Jónasdóttir, kona Jóns Skagfjörð bónda í Swan River-bygð í Manitoba; 27 ára.

Í Ágúst: Árni Austmann, sonur Ólafs Austmanns, bónda við Spy Hill, Sask., ungur maður.

SEPTEMBER 1915.

2. Jakobína Sigurbjörnsdóttir, kona Magnúsar Magnússonar í Selkirk; 36 ára.

4. Pálmi Einarson, ungur maður í Winnipeg.

5. Sigurleif Pétursdóttir til heimilis í Winnipeg, ekkja Erlends Erlendssonar, kafteins frá Streiti í Breiðdal; 76 ára gömul.

6. Þorbergur Arinbjörn Þorvarðsson í Winnipeg, fæddur á Leikskálum í Dalasýslu); 27 ára.

11. Ólafur Loptson, til heimilis hjá bróður sínum, Sveinbirni í Churchbridge; 52 ára.

22. Þorvaldur Pálmason til heimilis á Gimli; 25 ára.
22. Sigurður Víglundsson til heimilis á Gimli; 19 ára.
23. Ólöf Davíðsdóttir til heimilis hjá dóttur og tengdasyni Mr. og Mrs. Th. Oddsson í Winnipeg. Ekkja Sigfúsar Kristjánssonar, dó í Selkirk 1895. Fluttust hingað vestur 1888 úr Þingeyjarsýslu; 83 ára gömul.
Í Sept.: Margrét Bjarnadóttir í Minnesota-nýlendunni, ekkja Runólfs Jónssonar (úr S.-Múlas.) háöldruð kona

## OKTÓBER 1915.

1. Þuríður Kristjánsdóttir Jónassonar í Red Deer, Alta. 23 ára.
3. Jóhann Árnason (Anderson) í Seattle, Wash. Flutti með móður sinni og systkinum hingað 1876 frá Kríthóli í Skagafirði.
6. Halldóra Jósefsdóttir, ekkja Jóns Gíslasonar Miðdal, við Hallson, N.-Dak.; 59 ára.
6. Ólöf, ekkja Guttorms Sigurðssonar, til heimilis hjá syni sínum H. G. Sigurðssyni í Leslie, 77 ára.
7. Rósa Pálsdóttir, kona Sigurvin V. Jósephssonar, bónda í Minnesota-nýlendunni; 56 ára.
8. Jón Helgi, sonur Halldórs H. Sveinssonar, bónda við Brú í Argyle-bygð; 17 ára.
10. Jóhannes Halldórsson, bóndi við Wynyard, (frá Björk í Eyjafirði); 69 ára.
16. Stefán Sigurðsson, trésmiður í Winnipeg.
17. Þórarinn Guðmundur Þorkelsson í Selkirk; 58 ára.
22. Ingibjörg Hafsteinína Johnston í Kenora, Ont., 20 ára
25. Finnur Bjarnason í Swan River-bygð í Manitoba, hét kona hans Jarðþrúður Eyjólfsdóttir, d. 18. jan. 1914. Fluttust af Vestdalseyri 1876 til N.-Íslands; 75 ára.
26. Aðalbjörg Jónsdóttir, kona Bjarna Björnssonar, bónda í Geysis-bygð í N.-Íslandi (frá Berunesi í S.-Múlasýslu); 53 ára.
27. Anna Stefánsdóttir, ekkja Jóns Abrahamssonar, dáinn síðastl. ár, (úr Eyjafirði); 70 ára.
28. Mrs. Haraldur Anderson, á Winnipeg Beach, dóttir Magnúsar Guðlaugssonar á Gimli.

## NÓVEMBER 1915.

1. Sigurður Árnason að Gardar, N.-Dak., (frá Reykjavík); 25 ára.
4. Guðjón Guðbrandsson í Brandon, Man., frá Skaga í Dýrafirði, 66 ára.
7. Björn Jónsson í Winnipeg, sonur Jóns Benediktssonar frá Hólum í Hjaltadal, 48 ára.
12. Benóný Guðmundsson á gamalmenna hælinn á Gimli.
20. Helga Jónsdóttir, kona Bjarna Helgasonar frá Hrappstöðum í Víðidal í Húnavatnssýslu, til heimilis hjá syni sínum, Birni, bónda í Vidi-bygð í N.-Íslandi, (ættuð úr Eyjafirði); 79 ára.
22. Anna Guðlaugsdóttir, ekkja Jóns Jónssonar úr Vestmannaeyjum;fluttust til Utah 1857: 80 ára.
4. Sigríður Sveinssdóttir í Selkirk; 69 ára.
Í Nóv.: Guðjón Guðbrandsson í Brandon (af Ísafirði), á sextugs aldri.

# INNIHALD: